# SA NIJE YFERSETV KVENNA Skoole,

EDUR

Stutt UNDERVIJSUN

Uṁ

Yferſetu Kveña Konſtena /

Til Almeñelegrar Nytſeme Samaṅſkrif-
adur i Donſku, og Forbetradur

Af


BALTHAZAR JOHANN

DE BUCHWALD.

Med. Doct. & Med. Provinc. Loll: & Falſt.


Eñ at Islendſku wtlagdur

Af

Vel-Æruverdigum og Miögvellærdum

Sr. Vijgfwſa Jons Syne.

Preſte ad Hijtardal og Profaſte
i Myra Syſlu.

Selſt Alment Iṅbundiṅ 9. Fiſkum.


Pryctur at Hoolum i Hiallta-Dal,
Af Halldore Erikſſyne, 1749.



Job. X. v. 9. 10. 11.

Mynst þeß, ad þu giørder mig af Jardar-Leyre, og þad þu munt giøra mig aptur ad Jardar-Dupte. Hefur þu ecke wthellt mier sin añare Mioolk, og hleypt mier til samans sem ødrum Oste? Þu J-klæddermig med Hollde og Hørunde, og med Beinum og Sinum samsetter þu mig.

Psalm. XXII. v. 10. 11.

Þu wt-leidder mig af miñar Moodur-Lijfe, þu varst mitt Hiaalpar-Traust þa eg var eñ nu aa miñar Moodur-Brioostum. Til þijn er mier kastad i fraa Moodur-Lijfe, þu ert miñ Gud allt i fraa miñar Moodur-Lijfe.

I. Tim. II. v. 15.

Eñ hun (Konañ) mun verda hoolpeñ fyrer Barnburdeñ, ef þær blijfa i Trwñe og Kiærleikanum, og Helguneñe med Sidseme.





# DEDICATIO.

VEL-EDLA og Haa-Ædruverdigre
**Fr. Valgerde**
JONS DOTTUR,
Eckiu Saal.
Mag. Steins Jons sonar /
Biskups yfer Hoola-Stipte,
(Sællrar Myñingar.)

VEL-EDLA og Haa-Ædruverdigre
**Fr. Gudrunu**
EJNARS DOTTUR.
Eckiu Saal.
Mag. Jons Arna Sonar /
Biskups yfer Skaalhollts-Stipte,
(Sællrar Myñingar.)

 Vel-

VEL-EDLA og Haa-Æruverdigre
FRU,

# Margretu
JACOBS DOTTUR,
Hustru
Hr. Olafs Gisla Sonar/
Biskups yfer Skaalhollts-Stipte.

EDLA og Stoor-Æruverdugre
FRU,

# Pooruñe
GUDMUNDS DOTTUR,
Hustru
Hr. Magnusar Gisla Sonar /
Logmañs Suñañ og Austañ aa Islande.

EDLA, og Stoor-Æruverdigre
FRU,

# Maylmfrijde
JONS DOTTUR,
Hustru

Hustru
# Hr. Sveins Sølva Sonar /
Logmañs Nordañ og Vestañ a Islande.

Mijnum Haattvyrdande Elskulegum Systrum i DRottne, Oska eg Riettlætes Fridar og Fagnadar i H. Anda.

NÆD eg dedicera þessarar Bookar Fyrstu Edition a vort Maal, ydar Vel Ædla og Ædla-Heitum, hefur so vel sijnar vissar Orsaker, sem hvad añad, a medal hvorra ad er su hin hellsta, þad eg veit snart einga þa Book, er hellður skyllde þeim Ædstu og Bestu i Landenu, af þvi Kveñlega Kyne, tilskrifast, þar bæde er hun su hin Fyrsta, uñ þad Efne, sem a vort Maal er wtgeingeñ, er hellst vidvijkur þvi Kveñlega Kyne, ei einasta þad æhrærer Fiølgan Mañkynsins af þess Lijfe, helldur, hvøria Gudrækelegã Hiaalp ein kañ, i soddañ Daudans-Hættu, añare med Raad og Daad ad veita, so sem þær Ebræsku Yfersetu-Konur fordum Daga, syndu i Ægypta-Lande, Siphra og Pua, er af

 siñe

siñe Gudhrædslu ei einasta hiaalpudu Mœ
drunum ad leysast, og Börnunum til Ver-
alldareñar, helldur frelsudu þeirra Lijf fra
Daudanum, hvørs vegna Gud giørde vel
vid þær og bygde þeim Hws, Exod. 1. So
þeirra Nøfn, og Epterdæme eru eñ nu i
Christeñdoomenum, medal hiña Vegleg-
ustu upptaleñ i Ritninguñe. so sem Drott
ne hefur þocknast, ad prijda yckar Vel-Ed
la og Edla-Heita Nøfn i Haaum Em-
bættum med Gudhrædsluñe og heñe fylg-
iande Elsku til Guds og Naungans, er
sig auglijser og auglyst hefur i Lande voru,
med allra Kveñ-Dygda Loflegum Epter-
dæmum, til Fyrermyndar øllum Andleg-
um og Veralldlegum Ekta-Hustrum;
Þvi saa eg ei adra nær-skylldare, hvørra
Nafne skyllde aa Lopt hallda med þessare
Book vor aa medal, eñ alla Reidu sagt
hefe, til Þacklætis og Endurmyñingar
undañfareñar Gunstar og stooru Good-
villdar, samt til Recommendationis þessar-
ar Bookar, hiaa yckar, nu lifande Vel-
Edla- og Edla-Ekta-Herrum, ad hun
mætte, fyrer þeirra Gudrækelega Tilhlut-
an, so distribueraft, ad hun ei kome i Omilld

ra Haad-Skaalka Hendur, hvørler sijdur hafa med hana ad giøra, eñ Svijn med Perlur; Helldur ad huu mætte wtdeilast aa midlum Gudhræddds Foolks, sem dææst ad DRottens Dasdsemdar-Verkum, og aastundar hañs Vilia til Næungans Velferdar, so ad bæde Interpres og eg mættum niooka þess Avaxtar, vorrar þess arar Fyrertektar, ad Guds verde Dijrden, eñ Hlutadeigendum (Yfersetu-Konum, Mædrum og Børnum) til Uppliisingar, Fyrergreidslu, Frelses, Fagnadar og Farsælldar. Saa Odaudlege Gud, sem bless adur er um Allder, margfallde so Giædsku sijna yfer yckar Vel-Edla og Edla-Heitum, og nu lifande Vel-Edla og Edla Ekta-Herrum, ad allt Hørmunga Vatn, hvørt sem komed er, eda koma kañ, verde ad sætu Glede-Vijne og Oendanlegum Fognude ad Endalokum aa Himnum uppe.

Þess Oskar
Ydar Vel-Edla-Heita
og Edla-Heita
Reidubweñ Vin og
Þienare i DRottne.
Hall dor Brinjolfsson
Sup. Hol. St.

Hoolum
þañ. 19. Jan.
1749.

# Gudhrædde og goodfwse Lesare.

HID Yfersetu-Kveña Embætte, sie eitt af þeim ellstu i Verolldeñe, er audsært af Gen. Book. 35. Cap. Og fyrer ollum Skynsomum Moñum, eitt vandasamasta, sem ecke einasta wtheimter, næst Gudhrædsluñe, sem er til alla Hluta Nytsamleg, stoora Mañ-Giæd-sku vid Moodurena og Barned, helldur og ſier-deiles Vit og Kuñattu ad brwka þa somu, þeg-ar nockur Vande er a Ferdum, þar, þa er ecke uñ Liitelræde, helldur tveggia edur þriggia, ef ecke fleire Maña Liif, ad giora.

Uñ þessa Konst er mier ei vitanlegt, þeir Gom-lu hafe nærre so naakvæmlega skrifad, edur neirn af þeim Niju, sm̃ þesse Hroosverde Author Balthazar Iohann de BuchWald, hvør ed þackar miked þeim Hollendska Hendr. a Deventer, fyrer sijna Upplysing hier i, sierdeilis hañ hafe fremur þeim hyggnustu Forn-Alldar Moñum, funded og bevijs-ad, ad sa litle Partur Moodur-Lijssens, sem er fyr-er ofañ þau 4. Bond, og sieast kañ af Samburde þeirrar fyrre og sijdare Fijguruñar, hvar aa stend-ur, i hverre fyrer sig, sieae mest Rwms, epter þvi sem Fooſtred þrooeſt, og þvi kaſte þad sier optlega a allar

a allar Siidur, hvar af orsakest su Skacka Lega Moodur-Lijffsens, til hvørs hina gomlu (hañ segier) aldrei hafe dreymt: Ad soñu hafa fyrer mørgum Oldum þeir Griskir og Roomverskir, sem fleire, skrifad uñ Getnad og Skapnad Barna, asamt Kveña Medgaungu-Tijma; Lijka hiner yngre Anatomi; Eñ ecke so Natturlega þa rettu Yfersetu-Kveña Uppfræding, sem þesse; So ei er ad undra þoott vorar Yfersetu-Konur, hafe vered miøg fáviitrar i slijku, þar sia ma af þeim sijdarsta Capitula þessarar Bookar, hvada Vitleysu þær Utlendsku Yfersetu-Konur hafe teked til Bragds, hveriu lijkt aldrei er heyrt i voru Lande, a medal allra Forn-Alldar Yfersetu-Kveña Heimsku og Hiaa-Trwar, sem eg hefe ad komest, jafnvel þoott nockud sie epter af þeim Talmudisku Dreggium, sem Samburdur þeirrar Bookar, er kallast, Talmudiske Qvelle, vid sumt Hættalag, kañ ad bevijsa, og margt sie a vora Lands-Meñ loged, a medal hvers ad er, þad Yfersetu-Konur verde þeirre er a Goolfe liggur, ad gefa 1. Pott Lyses ad drecka, þvi hun leysest ei añars: Eñ til ad Demonstrera þeim, er þykia Yfersetu-Konur vorar, sieu þeir Sialfbyrgingar, ad ei þurfe þær þessarar Bookar vid, þa er til Dæmes þad, ad eg hefe grant þeckt þa Yfersetu-Konu, er allstadar ad i kriing var sookt, og hafde, þa eg vid hana skilde, epter heñar Reikninge teked vid 300. Børnum, og took þo vid fleirum sijdañ; Eñ ei bar hun Vit til nockra

Urræda ef nockud Vandasamt skylde uppa koma:
Oñur var og 70. ad Alldre, Rosk sem oñur Yngre, og skyr i almeñu Tale, er hafde teked vid 70. Bornum; Eñ i eitt Skipte, eg var nærstaddur hun sat yfer Konu, og hun fañ nockud Ovenuilegt adbera, bente hun mier, og i Hlioode bad Iñelega eg segde hvad þad være, sem ei var añad eñ Lækureñ, hardur og kalldur, þvi Barned laa aa grwfu yfer Skaaleñe, og var þegar laated; Eñ under eins eg sagde heñe hvert Handtak hun skylde brwka, epter sem eg hafde lært af Pharamundi Rumelii Libro de Phalaia Microcosmi, og hun hafde þad giort, fæddest Barned þar strax a epter, so næst Guds Hiaalp (hvørrar ætijd a fyrst ad leita med Hiartanlegre Bæn i Trwñe, og i Ugglausre Von ad bijda, eñ ei i Raada og Siñuleise) rijdur a fliootum og hentugum Handtokum, i þægelegañ Tijma aan Undañdraattar: Allt hvad eg hafde, nu, sem optar, fornumed um Einfelldne, ei einasta, Yfersetu-Kveña, helldur og jafnvel lærdra Maña, vor a medal, i slijkum Efnum, þootte mier æred þungt, og þeim Mun þijngra er eg heyrde lioot Brixl-Yrde um slijka Einfelldne vora; Po þijngst, þa hvør ein var kollud til þessa sem fyrer vard, so þar dugde eingeñ Umvandan, hvør Osidur þo ei var þar eg var Prestur a Sudur-Nesium, helldur vissar Yfersetu-Konur, og sumar skyrar, fremur Vonum; Vegna aadurtieds feck eg, þa sijdarst sigldi strax i Hug ad Translatera þessa Book, mijnum Lands-

Moñ-

Monum til Gooda, og þvi kostade hier um̃ 15 Ryxd: uppa Fijgururnar, til þess fyrsta Upplags; En̄ þa eg kom til Landsens, var mier sagt, ad vel Eruverdugur Profastureñ i Myra Sijslu, Sr. Bijafus Jons son hefde wtlagt þessa Book, hvors vegna, eg, bæde til ad fyrra mig þvi Omake, og ad læta hañs Gudrækelega Um̃sorgun þessarar Uppfrædingar a Lopt halldast, bad hañs vel Eruverdig heit ad epterlæta mier þa Translation; Hvort og skede

Sijdañ Rædfærde eg mig vid Hañs Hæ-Eruverdugheit, Biskupeñ Herra Olaf Gislason, um̃ þessarar Bookar Edition, um̃ hvoria, af þvi ockur samañkom, og Clericiet hier æ næsthalldeñe Synodo Generali æ Flugumijre, upphvatte mig ad lofa og flijta þeirre somu, er nu þvi Verke, i DRottens Nafne afloked, hvort eg Oska, ad so vijst verde Gude til Dijrdar og hañs Bornum til Gooda, sem eg hellst af Hiarta leita þess sama, med iñelegre Epterlæangan, ad þetta Erfide verde ei til forgiefens, Fyrr nie Sijdar.

Prent er nu sierdeiles sem mig ugger i hiæ Utgaungu þessarar Bookar. 1, Ad sumt Foolk sie, sem ei vill læra neitt i soddañ, helldur blijfa i siñe fyrre Blindne og Fæavitsku, eins hier epter og hijngad til, Sierdeilis (kañ skie) þær sem minst hafa Vit þar æ, sem (þvi verr) morgum er hætt vid, og seigia: Ecke fer betur eñ fared hefur; Hvort Osatt er; Þvi betur mæ fara, epter þvi sem nu er komed;

komed; Eñ bad være bo ein fæleleg Synd, og herfeleg Mijnkun fyrer Landed, skylldu bær sem skijrar eru, vera so braalaatar, sier og odrum til Ills, bvi Lof sie Gude, ad vort Kveñ=Foolk er so vel gaafad, sem añara Landa (være bvi bar epter kient) bæde til Muñs og Handa; Jaa sumar hafa funded uppaa bad sem bær hafa ei lært, sem Corinthia; Hvad ba, være beim kient? Mundu bær ei gieta lært Maalara=Konst, sem Core af Athanegora og margar fleire; Eda kveda uñ Verk sitt sijdañ sem Schurmannin, ba hun hafde Maalad upp siaalfa sig.

Cernitis hic picta nostros in Imagine vultus?
Si negat ars formam, gratia vestra dabit.

Hvad ecke Chemien og Lækninga Konster, sem Flora Isabella; Eda Tungumaal og Lærdooms=Lister, sem allmargar i odrum Londum, og sia maa af Profess. Holb. Forsv. W. Kveña. Nu boott hier sie ei Skoole ad kieña soddañ i, sem Plutarch. fortelur i Gricklande hafe vered, Vide A. W. H. T. 2 S. 396. & al. Pa meiga beir myked gott læra af bessare Book, er vilia leggia sig epter bvi, og leita Uppfrædingar Gudhrædra Lærdra Maña i bvi beir ecke skilia.

2. Ad uñ hana og heñar Nytsemd, verde stoor Agreiningur, ad sumer (sem ei hafa meira Vit) hallde hana Parflausa, bar hiner (sem bera Vit og Lærdoom bar til) hallda hana miog Naudsynlega, so heñar Fatalia verde, aalijka og Fordum

Gulls

Gulls og Sylfurs, hvort Socrates med Euripide lastade, lijka Ovidius og adrer fleire i þeirra Stad; Eñ þar æ moote losudu Aristodemus, Spartanus, Propert. Og marger adrer, sem Georg: Fabr: fortelur Lib. 1. de re Metall; Eñ hugga mig þar vid, ad þesser verde hinum driwgare.

3. Ad hun komest i Ogudlegra Maña Hendur, hvorra Twngur eru Upptendradar af Helvijte, Jac. 3. 6. Med fwlum, svijvirdelegum, Gickslegum Losta og Hiegooma Ordum, Eph. 4. 29. Cap. 5. 4. 6. Ad hæda Skopun DRottens, og helst þa Limu Mañsins, er þeir ættu mestu Vyrding ad tilleggia. 1. Cor. 12. v. 23. Hvorier Blygdunarlauser og Ogudleger Hæd-Skalkar syna sig, þvj helldur þeir eru Orender fra Christo, þeim Mun meir Iñlijfada og lijmada Dioflenum af hvors Nægd i þeirra Hiarta þeir tala, Matth. 12. v. 34. Sier til Fordæmingar, v. 5. og Hædungar vid Gud og hañs Handa-Verk, sierdeiles þa Limu Mañ-Kynsens, sem skapader eru til þess Fiolgunar, og þad bæde a sier og odrum, hvorier þo ei einasta ganga fry fyrer Straffe Veralldareñar, helldur leida margañ Ungañ og Einfalldañ med soddañ, fra Gude a Veg Dioful sens, hvors vegna, vilie þeir ei læta af slijku Gudleyse, þeir eru siælfasshendter Dioflenum, til Holldsens Fordiorfunar, so Andeñ mætte hoolpeñ verda a Dege DRottens vors JEsu Christi, 1. Cor. 5. v. 5. Uppa þad þeir med Hum-

Hymenæo og Alexandro faae þad Straff er kieñe þeim ad áfleggia Hædnena. 1 Tim. 1. v. 20. J Tijma, so ei kvelieſt Twnga þeirra ſijdar meir eilijflega af þeim Helvitiſka Loga, Luc. 16. v. 24. hvar þeir munu ei fa kiælt hana med Hæd-Yrdum þeim er þeir hafa hier ſvalad a bæde ſier og Dioflenum, hvørs vegna eg Oſka, þeir mætte huxa fyrer ſier i Tijma, þeynkiande til þeſs ad meiga ſtanda Reikning a Dooms Deige af hvøriu Onytiu Orde ſem þeir hafa talad, Matth. 12. 3. Vitande fyrer vijſt, ad bæde Author og Interpres hafa ſo Lempelega Bookena ſkrifad og wtlagt, ad eingeñ ſem ſtioornaſt af Guds Anda, ſkyllde hid miñſta hneixlaſt af heñar Ordum, eda Atvikum, og þvi ei allounges ſo wtþrickelega ſkrifad uñ og wtmaalad eitt og añad Aſigkomulag og Handtok, ſem þeir med eñ þa nækvæmare Ordum hefdu kuñad ad giøra, ef þeir ecke, hefdu bored ſama Kvijdboga og eg, fyrer ſlijkum Ogudlegum og Oradvondum Hæd-Vørgum, ſem valla eda ecke gieta Skañarlauſt huxad uñ ſlijka Hlute, eñ ſijdur heirt edur leſed, og þo allra ſijdſt veitt þar i nockra Gudrækelega Adſtod; Hvørs vegna allt ſkickanlegt Kveñ-Foolk, hefur Vidurſtygd a ſlijkum Mañſijlum, og vill helldur (i DRottens Nafne) ut af deya, eñ leita hiaa þeim nockrar Lidſemdar; A medal hvørra Guds Handa-Verka Spottara, hætt er vid ſie nockud af þvi Kveñlega Kyne (þo olijklegt ſie) eins, og eingu betra, ſem allt ofmørg Dæme hafa gefiſt,

og giefast, ad þar hefur verid og er verri Jessabel i Heimenum, eñ eirn Achab, jafnvel þoott synst hafe hid Ytra sem forsaugadar Grafer Daudra Maña, hvors vegna, þad er stoor Naudsynlegt, ad allra Underdanigast sie epterlifad, Kongl: Majest. Allranaadugustu Løgum og Forordningum, er Allranaadugast tilhallda, ad otvelia gudhrædda, skijrar og skickañlegar Koiñur fyrer Yfersetu-Konur, ad olldunges mætte aftakast sa Ogudlege Osidur sem sumstadar er fariñ ad vidgangast hier i Lande, ad hvor ein Ambaatt sem fyrer verdur, og næst er Hendeñe, er tekeñ til þessa Vandasama Verks, er so myked aarijdur, og þad, þoott þær hvorke hafe stoort Vit a Gude nie ødrum goodum Hlutum, og valla sieu brwkande til Fienadar i soddañ, so sijnast maa, ad Yfervollldeñ sem ecke alvarlega um̃vanda slijkt, vilie so otleggia þad Hebræska Ord Chajoth Yfersetu-Koeñaña i Egyptalande, um̃ þeirra Hebræsku Koeña Hraustleika til ad fæda, Exod. 1. Sem um̃ Villu-Dijraña Stirkleika, ad hier þurfe hvorke meire Gudhræslu eda Vit til, eda nockra Elsku og Natturlega Nakvæme eñ vid Maallausar Skiepnur; Hvors vegna eg vil hier med sierdeilesslega hafa aamint Clericiet i Hoola-Stifte, ad þad fyrer Guds Saker og Christelegs Kiærleika vegna, laate ecke under Hofud leggiast, þad þeir alvarlega epter Konungl. Mst. Allra-Naadugustu Tilskipan afskaffe allar O-reglulegar Yfersetu-Tauser (sem ecke meiga Konur kallast) skule

þær

þær nockurstadar teknar vera; Eñ tilsetie adrar velhæfelegar, epter þvi sem hvor Sookn vid þarf, og þeir møgulega gieta, Take lijka ollum Vara fyrer Ofkickañlegum Umrædum slijkra Hluta, og ad þesse Book komest ei i Heudur Ogudlegra Maña. Gud Allsvalldanda bid eg af Hiarta fyrer Christelega Umvandan Naadarsamlega ad aptursnwa aa riettañ Veg, ollum Haadgiornum og Prœlaatum Syndurum, so þeir mættu af Tijndum fundner, og Daudum lifande verda, til Fagnadar Iñleidslu Eilijfrar Dijrdar; Sømuleidis ad Book þesse fyrer hañs Guddooms-Krapt, og Hiarta-Giædsku, fære þa Nytsemd sem til er ætlad hañs Odaudlega Nafne til Dijrdar, eñ Hlutadeigendum til Hiaalprædes og Fagnadar.

Hooluin D. 23. Jan. 1749.

Allra Guds Barna Reidubweñ Pienare i DRottne.

Halldor Brinjolfsson.
Sup. Hol. St.



Fyrre

# Fyrre Part-
# URENN.

## Um̃ Naatturlega Fæding.

## I. Capitule.

### Um̃ Yfersetukonuñar Skylldu, og hverneñ heñe eige haattad ad vera.

1. Hvorneñ skal Yfersetukonañ vera aa sig komeñ?

Hun skal hverke vera of ung og Oreynd, nie ofgømul, helldur Midalldra, med fullum Kroptum, Myñe og Forstande, Heil og Osiwk, ecke of Lurkaleg, of Feit, eda stird i vikum; Þar med skal hun vera Snarraad, Sidlaat, Gladlynd og Skinsøm, ad hun kuñe bæde ad lesa og skrifa, og sierdeilis ad lesa; Þar ad auk forstandug og medaumkunarsøm vid faatæka, eñ fram̃ yfer allt añad, skal hun


vera

vera Gudhrædd og hafa gooda Samvitsku: Þar fyrer utañ, maa hun ecke vera Þwngud ad Barne, nær hun skal ødrum hiaalpa, þvi þad hindrar hana i heñar Verke, og fyrer hana er þad skadlegt eirneñ.

2. Hvad er þad sem heñe er tiltrwad, og aa Heñdur faled?

Alltijd Tveggia, og stundum fleire Maña Lijf, til hvørs hun skal svara fyrer Gude, ef nockur deyr fyrer heñar Forsoomun, og Hirduleyse.

3. Hvert er Embætte heñar?

Med goodum Raadum og Fortølum, ad hugga Sængur-Konuna, hiaalpa heñe i Fædinguñe, og epter Fædinguna, ad høndla skickanlega vid hana og Barned.

4. Hvorneñ fær hun þetta lært?

Med þvi hun sie vel Uppfrædd, Athugasøm, og aastundunarsøm, bæde i þvi ad læra og ydka sig hier i.

5. J hvøriu er heñar Lærdooms Kunst Jñefaleñ?

Ad þeckia Skapnad Konuñar Jñvortis sem Utvortis, og i Rañsookniñe.

2. Cap.

# II. Capitule.

## Uñ Kveñfoolks Skapnad.

1. Hvad gagnar Yfersetu-Konuñe ad þeckia Konuñar Skapnad?

HUn lærer þar af, ad þeckia Parta Lijkamans, sem heira til Fæding-uñe, og Samteingingu þeirra og Brwkun, aan hvorrar Þeckingar, hun kañ ecke sem hæfer, ad hiaalpa nockre Konu, i Barns Fædingar Neyd.

2. Eru þesser Partar edur Limer Margslags?

Tveñslags, Utvortis og Jñvortis.

3. Hvorneñ eru þesser Partar?

Þeir eru harder og mwker, Nefnele-ga: Holld og Bein, hvoria Yfersetu-Kon-añ verdur ad þeckia, og þeirra Samteing-ing; Þvi Beineñ laata eige undañ eins og Hollded, eda hiner Hluter Fædingar Stadarens.

4. Hvilijk og hvorsu mørg eru þesse Bein?

Fyrst eru Miadmar Beineñ, og þar næst Tvø Lijf-Bein framañ til, og þar fyr er nedañ, hiner nedri Miadmar-Spadar edur Sessbein, þar næst Kross-beined,

hvert ader i mille beggia Miadma-Beinaña Bak til, og þar fyrer nedañ er Daus-Beined, sem er lijted og samañ sett af Preimur Smaa-Beinum, þaug eru lin sem Briosk, og svigna til og fraa; Hvad allt betur kañ stæst a einre Beina-Grind, eñ Utmaalast; Þesse Bein, giøra øll til samans nedst i Lijfenu, Skaalar-Mind; Og kallast þar fyrer Skaal, edur Miadmar-Hrijngur aa vort Maal.

5. Hvad liggur i þessare Skaal, edur Miadmar-Hrijng?

Enda-Parmureñ, Moodur-Lijfed med sijnum Floorum Bøndum, Treimur hvers Vegar, aasamt sijnum Haalse og Hland-Blødruñe.

6. Hvorneñ liggia þesser Partar?

Jñañ vid Kross-Beined Bak til, liggur Enda-Parmureñ, þar fyrer ofañ Moodur-Lijfed med sijnum Haalse, og aptur þar fyrer ofañ Hland-Bladrañ, hverrar Raas ad liggur wt framañ til under Lijf-Beinenu.

7. Hvoriu er Moodur-Lijfed lijkt?

Hiaa eirne Jomfrw er þad stoort sem Val-Nit, i Mind sem umsnweñ Pera,

og hiaa heñe sem Barn hefur aatt, er þad nockud stærra; Eñ hiaa þeirre sem er komeñ ad Falle, er þad skapt sem Skiñ-Pose, og so stoort sem stoor Nauts Bladra, edur nockud miña, epter þvi sem Barned er stoort, edur Konañ geingur med eitt edur fleire Børn, eirneñ epter þvi sem Vatned er miked med; Þar hiaa er þad og ad merkia, ad saa litle Hlute Moodur-Lijfsens sem er fyrer ofañ Bøndeñ, liær mest Rwms, hvørt ed kañ ad siaast af medfilgiande Tveimur Figurum, so Yfersetu-Konañ skilie þetta betur, þar þad er opt Orsøk til baagrar Fædingar.

8. Hvad er Haals Moodur-Lijfsens, edur Farvegur?

Hañ er so sem Partur af Laanga, sem byriast ad ofañverdu fraa siaalfu Moodur Lijfenu, eñ endar vid Fædingar-Stadeñ.

9. Hvad er athugande i þessu?

(1) Haalseñ er allur bruckottur, so hañ kañ þar fyrer ad wtþeniast i Fædinguñe, og epter Fædinguna, dragast samañ aptur; (2) Er vid hañs efre Enda Muñeñ aa Moodur-Lijfenu, sem kañ opnast og til-lykiast.

10. Hvorier eru Utvortis Limerner?

Allt þad sem Madur med Augunum sier, og kallast Gietnadar-Limur, edur Fædingar-Stadur.

11. Hvorier Partar heyra þar til?

1.) Varernar,(labia.) 2.) Vatnsens Varer (nymphæ.) 3.) Pvag-Gaungureñ (urethra.) 4.) Þeir Smaau Kirtlar. 5.) Mid-Veggureñ edur Gardureñ (perinæum.) i mille Fædingar-Stadarens, og Parfa-Gaangsens. Þetta hlijtur Yfersetu-Konañ ad þeckia grant, so hun vite vel, hvør þessara Parta lijde mesta Piaaningu, eda hafe feinged nockurn Skada, verde hun af einum Læker epter þvi spurd.

## Utskijring Fyrre Figuruñar.

(a) Moodur-Lijffins Botn

(b) Moodur-Lijffins Muñe.

(cc) Moodur-Lijffins Haals, og Farvegur, skoreñ upp ad Endelaungu, uppaa þad hañs Hruckur og Moodur-Lijffins Muñe þeckest þess betur.

(dddd) Moodur-Lijffins Bond hin Nedre.

(ee) Moodur-Lijffins Bond hin Efre.

Ut-

## Utskijring Sijdare Figuruñar.

(aa) Moodur-Lijfed.
(b) Moodur-Lijffins Muñe.
(cc) Efre Bondeñ.
(dd) Nedre Bondeñ.
(ee) Moodur-Lijffens Haals.

# III. Capitule.

## Uñ Ransooknena.

1. Hver er Añar Partur sem Lærdooms-Kunsteñ Yfersetu-Kveñaña er Grund-vollud a?

**Pad er Ransookneñ.**

1. Hvad er ad Rañsaka Konuna?

Pad er ad laata Eiñ edur Tvo Fijngur iñ i Halseñ edur Farvegeñ a Moodur-Lijfenu, ad vita þar med, hvørneñ haattad sie uñ Moodur-Lijfed og Barned, þo er betra ad brwka Tvo Fijngur þar til eñ Eirn, þvi þar med gietur Yfersetu-Konañ helldur giort Adgreining a Einu og Od-ru, þo kañ so til ad falla, ad hun kome ei nema Einunn Fijngre vid, og blijtur hun þa ad haga sier epter Hentugleikum i þessu, samt verdur hun ad siaa til, ad hun sinaam

samañ fære komed Tveimur Fijngrun-
um þar iñ.

3. Hvorneñ skal hun þetta giøra?

Hun skal brwka hier til Vijse-Fijngur og Mid-Fijngur, eñ speña Pumal-Fijngureñ fram fyrer Lijf-Beined, eñ hina adra Tvo, Baug-Fijngureñ og Litla-Fijngureñ, læta gæanga aptur fyrer Parfagæang eñ, og upp ad Daus-Beinenu, sierdeilis ef Yfersetu-Konañ hefur stuttar Fijngur, edur ef Moodur-Lijfed hefur giefed sig hæatt upp; Skiedur þesse Ransookn betur æ þeña Hæatt, helldur eñ ædur-nefnder Fijngur sieu krefter i Loofañ, þvi þa hindra Hnwarner fyrer, ad þeir Tveir Fijngur komast ei so læangt sem skyllde.

4. Skiedur þesse Ransookn med mørgu Moote?

Tveñslags Moote; Par ødruvijse verd ur ad haga þessu þa Konañ stendur, helldur eñ þegar hun liggur.

5. Hvorneñ skiedur þesse Ransookn þa Konañ stendur?

Yfersetu-Konañ sinyr Tvo Fijngur æ þeirre Hondeñe sem hun hefur hier til, med Oleo, edur añare Feite, og krijpur sijdañ fyrer

fyrer framann Konuna, ad þad Knie sem er ad somu Siidu og Honden, enn hinne helldur hun umm Konunnar Hrigg, ad medann hun framkvæmer þetta, svo bæadar sieu stødugar.

6. Enn hvornenn skiedur þesse Ransookn þa Konann liggur?

Þad ma þa ei einu gylllda hvoria Hondena hun brwkar þar til, helldur skal hun brwka þa Hondena sem nær er þeirre Hlid sem Konann liggur ad, Til Dæmis: Ef Konann hallar sier ad Hægre Hlidena, þa ad ad brwka Hægre Hondena; Sie þad Vinstre Hliden, þa brwkast Vinstre Hond enn þar til.

7. Hvad giorer Yfersetu-Konann epter þetta?

Hun leggur sig ad bæde Knie, fyrer framann Rwm-Stocken, bidur Konuna ad Upplypta þvi Lærenu sem henne er næst, hneppa sig og setia Hælana nidur, og siidann fer hun med Rannsooknina, sem adur er sagt: Enn giete hun þad ei med þessu Moote, þa verdur hun, ad bidia Konuna, so framt hun hefur Krapta þar til, ad standa ad Kniaunum i Sængenne.

8. Er þeſſe Handa-Tiltekt, ſo miøg naudſynleg?

Hun er ſo naudſynleg, ad hun maa alldrei forſoomaſt, og ſie ſo, ad nockur Barnſængur-Kona, añadhvørt af Einfeldne, edur Einþykne, vill ei leifa ſlijkt, þaa maa Yferſetu-Konañ yfergefa hana ølldungis, þar hun kañ ecke med goodre Samvitſku hia þvilijkre Konu ad vera, heñe til hiaalpar, epter þvi hun kañ ei tilbærelega ad giøra ſitt Verk, aa medañ hun veit ei hvørneñ til hagar, og hvad aa breſtur.

9. Þar þeſſe Rañſookn er ſo miøg naudſynleg, til hvørs gagnar hun þa?

Yferſetu-Konañ verdur þar med marg ra Hluta vijs. 1.) Hvørt Konañ er med Barne. 2.) Hvørſu nærre Fædinguñe hun ſie. 3.) Hvørt þad ſieu Fædingar-Hrijder, edur añar Verkur Jñvortis i Maganum. 4.) Hvørt þad ſieu þær riettu Hrijder, edur ecke. 5.) Hv. ørt Moodur-Lijfed ſtande riett; (Þvi ef ſo er, maa hun vera viſs um Hæga Fæding) edur þad kaſtar ſier til Hlidaña, og til hverrar þad ſie. 6.) Hvørt Fooſtred ſnue ſier riett edur ecke. 7.) Ad hun veit

þar

þar med, hvørt hun þarf ad hiaalpa Konuñe, eda hun skal laata Fædinguna gaanga epter Naatturuñar Edle. 8.) Hvørt siv Hella edur Pickt, sem Konañ hefur, sie i Moodur-Lijfenu, edur fyrer utañ þad, aasamt adrar slijkar Krijngumstædur.

10. Nær skal þesse Rañsookn skie, hvørt helldur medañ Hrijdernar yferstanda, edur fyrer þær, edur epter?

Hun maa alltijd skie: Fyrer Hrijdernar maa hun skie, uppaa þad, ad medañ Himnurnar uñ Barned eru eñ nu linar, ad hun vite hvør Barnsins Limur vill fyrst koma i Lioos, þvi aa medañ Hrijdernar yferstanda, og speña wt Fornisted, verdur þad ei vel rañsakad. A medañ Hrijdernar yferstanda, maa Konañ og Rañsakast, so Yfersetu-Konañ vite, hvada Hrijder hun fær, hvørt þær sieu riettar, edur aññarslags. Epter Hrijdernar ma Rañsookneñ og skie, uppaa þad Madur vite, hverju miked þær hiaalpad hafe, til Fædingareñar.

4. Cap.

## IV. Capitule-

### lūm þaug Merke, hvar af þeckiast meige, hvert Konañ sie med Barne.

1. Eru þesse Teikn eda Merke margfolld?

Þaug eru Tveñslags: Añadhvørt almeñeleg, sem hver ein Kona þecker, edur þaug eru sierdeiltsleg, sem Yfersetu-Konurnar einungis þeckia, og eiga vel ad vita.

2. Hvor eru þaug almeñelegu Teikneñ?

Sierdeilis eru þaug: Veikleike i Lijkamanum, Velgia, Uppsala, Mænadar-Teppur, Kvidarens Vøxtur, og fleire oñur, sem øllum eru velþeckt, eñ kuña þo stundum ad bregdast.

3. Hvor eru þau sierlegu Teikneñ?

Þau eru soleides, ad Yfersetu-Konañ med Ransookneñe gietur vitad, hvørt Konañ er med Barne, og fer nærre uñ, hvad laangt hun æ epter.

4. Hvar af gietur Yfersetu-Konañ vitad fyrer vijst hvørt Konañ sie Olett?

Af Muña Moodur-Lijffens, sem er eins og hnottottur hardur og sliettur Hnappur med lijtillre laangre Opnan i Midiuñe, sem

sem alltijd stendur openn, so þar maa innkom' ast lijted af eirne Nøgl, a medann Konann er ei med Barne; Enn Premur edur Floorum Døgum epter það hun er Barns hafande, til-lykur sig þesse Hnappur, verdur sijdann hvassare og hefft meir uppepter, hvar af nockurnveigenn maa þeckiast, ad Konann sie med Barne; Einkum ef hun finnur til Stijngs og Verkiar under Nablanum, þo kunna øll Kienne-Teikn hæglega ad bregdast, æ Fyrsta og Ødrum Mannude.

5. Hvar af verdur það vitad, hversu leinge ein Kona hafi geinged med Fostrid?

Þegar Munnenn a Moodur-Lijfenu enn nu fremur umbreitest, so vel ad Skapnadenum, sem Stadnum sem hann er i

6. Hvoriar eru þessar Umbreitingar og hvornenn kann sierhvor Tijme ad þeckiast af þeim?

Under eins og Konann er vordinn Barnshafande, tillykur Moodur-Lijffens Munne sig, verdur sinnæm samann flatare og linare, so hønum verdur lijkt vid Naser a Hvølpi, og gefur sig jafnann meir og meir ofann ad fædingar Stadnum, so Madur getur fundid hann med fremsta Lide sijns Fingurs,

þar

þar þo 'ædur varla til hañs nædist med ollum Fingrinum.

7. Hvi gefur Moodur-Lijffens Muñe sig ofañ epter ?

Af þvi Moodur-Lijfed stæckar Daglega og nidur þrickest af Jñiflunum, eñ þar eckert mootstendur þvi ad nedañ verdu, fær-ist þad þaangad.

8. Skedur þetta leinge ?

Hier uñ 6 edur 8 Vikur.

9. Hvert færest þad þar epter ?

Epter þvi Moodur-Lijfed kañ ei leingra ad komast nidur, eñ Fostrid stæckar jafnañ, þa stijgur þad upp under Parmana, og dregur þess Muña upp med sier; Sem þa verdur hvad epter añad slatare og linare: Eñ Konañ tekur þvi meir þa til ad þickna framar ur þvi; Moodur-Lijfid finst þa og eirnen nær ransakad er vera uppfyllt, eins og miukur Kodde, stuttum Tijma þar epter fær Barned Lijf og Hræring, sem ecke er so ad skilia, ad þad hafe ei Lijf fyrre, þar Barned fær þad strax i Upphafe; Helldur so, ad þad fær þa Krapta til ad hræra sig, af þvi þess Limer stirkna þa.

10. Nær

10. Nær ſkedur þetta?

Dad er ecke alltijd jafnt, þo verdur þad venjulega i millum þeirrar Fiortandu og Nytiandu Viku.

11. Hvad verdur fremur um̃ Moodur-Lijſſens Munna:

Hañ dregſt jafnañ hærra upp, og verdur flatare og linare, ſo a ſiøunda og attunda Maanude, finſt Mañe eins og þad hañ þreifade blindande a añars Muñ, og finde Varernar.

12. Hvorneñ verdur hañ framveigis?

So ſem hañ i fyrſtuñe var ſem Hnappur, þa þverrar hañ ſijdañ ſinamſamañ olldungis, og verdur þuñur, og flatur, og ſo haatt uppſtijgeñ, ad varla verdur naad til hañs med Fingrenum, þangadtil ſaaum Vikum fyrer Fædinguna, nær hañ ſijgur nidur ad Haalſenum.

13. Hvad er þad fleira ſem a þeim Tijma lætur ſig merkia?

Hvort Barned hefur ſnued ſier til ad fædaſt edur ecke?

14. Hvorneñ maa þad þeckiaſt?

Foſtrid i Moodur-Lijfe, ſitur vidlijka og þa Madur ſitur, nær hañ leitar ſier Hægdar

ar til Baksens, og þa ad þvi er komed ad þad skal fædast, snijst þad alloptast vid, so Hofuded er yfer Munanum a Moodur-Lijfenu, sem þeckiast kann gegnum Moodur-Lijfed, hvad hæglega kann ad blecka eina O-reynda og einfallda Yfersetu-Konu, i þvi hun ætlar þad sie Barnsins Hofud sem hun tekur a, og meinar ad komed sie ad Fædingunne.

15. A hverium Tijma snijr Foostred sier?

Einginn viss Tijme er a þvi; Epter þvi, þad snijr sier a stundum fullum fimm Vikum, fyrer þann rietta Fædingar Tijma, og stundum sijdar.

16. Hvoriar fleire Umbreitingar þeckiast af Moodur-Lijfsens Munna?

Hier umm fiortan Døgum fyrer þann retta Fædingar Tijma, byriar honum ad opna sig, so ad Madur kann med Fijngrinum ad þeckia Himnuna edur Liknarbelgenn i hverium Barned liggur (so sem fliootande i Vatne): Hier er þad merkiande, ad allar þessar upptaldar Umbreitingar verda ecke strax, hvoriar epter adrar, helldur sinnam-samann, og so sem omøgulegt er, fullkom-

lega

lega um̃ þær ad skrifa, þvi ber Yfersetu-Konum med Hentugleikum ad yd ka sig þar i, so þær af þessum Um̃breitingum kyñu ad vita nockurnveigeñ, hvad langa Tijd Koñañ hafe med Fostred geinged, og hvad leinge hun eige epter.

## V. Capitule.

### Um̃ (Ofall) edur otijmabæraň Burd.

**1. Hver eru þáug Tilfelle sem skadleguſt eru fyrer þungadar Kviñur?**

Medal añara sinærra Tilfella sim̃ þeim vilia til, og hier er ecke Þorf ad gieta, eru þesse hin Skadleguſtu; Ofall, edur fara illa; Og ganga med andvana Fooſtur: Ad fa Bloodlæt, og Sinardrætt, þvi hier af kañ hæglega bæde Modurin og Barned deya ef ei verdur i Tijma vid-hiælpad.

**2. Hvad er Ofall?**

Pad er þegar Konañ fyrer þañ siounda Mæuud fæder sitt Barn, þvi þad kañ þa ecke hallda Lijfe; Pad kallast og Um̃billting i þeim fyrſtu þremur Mæunudum, hvørt og under þessu Orde Ofall, skal um̃høndlad verda.

3. Hver er Orsøk til þess Ofalls?

Hun er añadhvert Iñvortis, so sem Hrædsla, Reide, Sorg, ofmikid Blood, og þesshaattar, sem giører snøggva Uñbreiting i Blodinu; Edur hun er Utvortis, so sem mikil Hlaup, Støckur, Billtur edur Føll, og þvilijkt, siaalfrar Konuñar Skapnadur kañ og vera Orsøk þar til, so hun Ovitande kañ fa Skada þar af, hvern eingeñ kañ møgulega ad hindra, Madureñ siaalfur kañ og vera Orsøk þar i, med siñe hardre Uñgeingne, einkum a þeim þremur fyrstu Maanudum þa Moodur-Lijfsins Muñe hefur gefed sig nidur epter sem leingst.

4. Af hvoriu maa þeckia ad slijks Ofalls sie Von?

Af þvi nær Konañ fiñur til Verkiar i Bakinu og Lijfenu, og hun fær Hrijder med Bloodlaate.

5. Verdur þessu O-falle hamlad?

Jaa, nær Madur i Tijma veit af þvi, aadur eñ Moodur-Lijfed hefur opnad sig, aa þeñañ Haatt, ad laata Konuna strax leggia sig upp i Rwm, og vera kirra, og gie fa heñe (ef til er): Pad sem Iñvortis og Utvortis, aan þess ad drijfa, kyñe bæde ad styrkia

stirkia hana og Barned; Eirnenn ef Þørf sijnest, ad vel reyndur Lækner, opne Æd aa Handleggnum.

6. Af hvøriu siest þad, ad slijku O-falle verdur ei hamlad?

Þegar Hrijdernar vaxa, og Moodur-Lijfed opnar sig vid hvøria Eina; Fooster-ed þreingest wt, Bloodlaated vex, sem Orsakar opt mikel Aungvit edur Omeigenn.

7. Hvad verdur hier adgiørt?

Yfersetu-Konann skal leggia alla Astundan og Umhyggiu ad frelsa Konuna, þad fyrsta verdur, og leysa hana af øllu þvi, sem henne ber ad vera af med, sierdeilis Kappkosta Barns-Fylgiuna vel i burtu ad taka.

8. Hvørnenn skal þetta ske, þegar ei verdur komed Hondenne inn.

Fyrst skal leitast fyrer ad koma Tveimur Fijngrunum inn i Haalsenn, og naa til einhvørs, sijdann smaamsamann rymka til; Jafnvel ad setia henne Klyster, sem opt giører miked gott.

9. Hvørnenn skal Konann haga sier epter slikt O-Fall, edur þa hun er frelsud fraa þeim O-Tijmabærum Burde?

Hun skal hallda vid Riwmed Almenelega Sængur-Legu, og jafnvel leingur en Almenelega skiedur, þvi þetta er myklu skadlegra, so sem sia mà af slijkum Konum sem fà O-Fall, ad þær eru alla Daga sijdan veikar, sierdeilis þær, sem of-snema gànga af Sængenne.

# VI. Capitule.

## Um Teikn til dauds Foosturs.

### 1. Hvør er Mismunur à O-Falle, og daudu Foostre?

O-Falled geingur frà Konunne, en þad dauda Foostur ber Konan lànga Tijd, og stundum heillt Ar, framyfer Edlelegan Tijma.

### 2. Hvørt Teikn er til þess, ad Konan geingur med daudt Barn?

Um þau hellstu Teikn, sem Menn Almenelega uppreikna, eru af þeim herfelegu Dømpum sem koma af þvi dauda Foostre, sem afla Konunne Velgiu og Siwkdooms, vil eg hier ei tala, sem þo eru ecke Obrygdanleg, helldur framtelia þau vissustu Merke, sem eru: 1.) Ad Konan finnur nedst i sijnum Kvid miken Þwnga, sem Steirn

værе,

være, er kastast fraa eiñe Sijdu til añarar, epter þvi sem hun snijr sier. 2.) Heñar Kvidur er svo kalldur, ad hañ hitnar varla, og þar med svo vidkomu. 3.) Ad illalukt-ande Vesse flijtur af Moodur-Lijfenu. 4.) Þegar ad þvi er komed, ad hun fæde, finst Høfud Barnsins mioglint, eñ Nad-er Beinaña hvassar. 5.) Ad su þuña Hwd Barnsins, er laus vid Kroppeñ, so Skiñed so vel sem Holldeð er eins og þad sie visnad.

3. Hverneñ kañ Yfersetu-Konañ hiaalpa i þessu?

Hun maa hafa gooda Ad-Giætne aa þvi, nær Moodur-Lijfsens Muñe opnar sig, añadhvørt sialfkrafa, edur af Lækning um, ad hun sem best leitest vid, ad naa Foostrenu med allre Hægd og Vareygd, so hun ei giore Skada naalægum Part-um, sem hæglega skiedur, ef hun er ei vel uppfrædd uñ þeirra Skapnad, og A-sig-komulag.

4. Hvert Merke er til þess, ad Barned sie nylega daudt fyrer Fædinguna?

Þegar Barned ber riett ad, og hefur Høfuded nidur ad Fædingar-Stadnum,

þa er Vandasamt ad vita, hvort þad lifer edur ecke, þar Hrijdernar hafa so samañ Pryckt þvi, ad þad kañ ei ad hræra sijna Lime, þo þad life, og þaug Teikn, sem almeñelega uppteliast, eru olldungis Oviss; Samt er þetta vissasta (og kañ þo bregdast) ad þegar Madur sier i Hvijlu-Bodunum, ad þar reñur af Fædingar-Stadnum grænleitur illaluktande Vesse, sem kemur wr Muñe þess dauda Foosturs, eins og siest aa Framlijdande gømlum Mañeskium, edur og epter þad, þa Lijked er hrært, edur þvi er snued.

5. Eñ hvort Teikn er til þess ad Barned lifer, þegar þess Høfud er ei so laangt nidur, edur þad ber ecke vel ad?

Ef Madur gietur komed Fijngrinum iñ i Barnsens Muñ, og fiñur Twnguna hræra sig, edur og hañ gietur naad i Nafla Streingeñ, og fiñur hañ slaa, ellegar ef Barnsens Handleggur haanger wt, og Madur sier ad þad hrærer Fijngurnar, þa er þad noog Mark til Lijfs.

## VII. Capitule.

### Um Bloodlaat.

1. Hvad merkest hier fyrer Bloodlaat?

NAER Blooded tekur til ad rena af Moodur-Lijfenu, og þar med Blood-Lifrar, sem æ meir og meir tekur Yferhønd, þar til þad renur, so sem være teken Tappe wr Tunu, þa er hætt vid, ef ei er strax vidhiælpad, ad Konan laate Lijfed.

2. Hvor er Orsøk til slijkra Bloodlaata?

Barns-Fylgian, sem er inst i Moodur-Lijfenu, hver med øllu edur ad nockru Leite laus er vorden, þar hun er ei anad en Aedar, og Moodur-Lijfed kan ei draga sig saman, æ medan Fooſtred og hun eru þar ine, so kan og ecke helldur Bloodlæted stemast, fyrr en allt þetta er i burtu, og Konan er frelsud. Þo i Fyrstu, ef Bloodlæten eru ecke Of-mikel, maa Madur reyna til med Aeda-Bloodtøku, æ Handleggnum, og ødrum þienanlegum Hlutum, sem stilla Bloodsens ofur-Hita, en sie Barns-Fylgian losnud, þa tiaaer ecke anad, en Konan skule frelsast æ einhvern Hætt.

3. Hvort Merke er til þess, ad Konan sie komen so nærre?

Þegar Blooded renur so myked, ad hun

missser alla Krapta, og þad fortnar fyrer heñar Augum, og fellur i Omeigeñ, þa er stoor Naudsyn, ad hun verde leyst sem allra fyrst: Eins er þvi og hættad uñ Sinardrætteñ, sem tilfellur ungum Konum, añadhvørt af Otta, edur þvilijku, af hvørin hætt er, ad slijkar Konur læte Lijfed, ef þær eru ei strax frelsadar. Eñ sieu heñar Hendur og Fætur ølldungis kalldar, og Kullda-Svite slæst wt med stoorre Hiartans Angist, þa er þad Alineñelega of-seint, og hvør sem þa leitast vid ad frelsa þvilijka Konu, mæ ælijta hana so sem dauda, og giøra nælægum þad vitanlegt, þvi þad kañ fliootlega ad skie, ad so veik Kona, og hartnær Bloodlaus, deye añadhvørt uñ edur strax epter Fædinguna; Po mæ ein skynsom Yfersetu-Kona ei yfergiefa hana, helldur giøra sitt Verk sem Gud kieñer; Eñ ad sitia yfer heñe Adgiørdalaus i slijkre Neyd, horfa æ þad hun deyr med Foostrenu, og bera sig ei ad leysa hana, er Oforsvarañlegt.

4. Hvørneñ kañ slijk Kona ad frelsast?

Epter þad heñe er veittur Hagkvæmur Uñbwnadur, sem hier epter skal wtskijr-

ost

ast, og Madur gietur opnad svo til, ad inn verdur komed Tveimur edur Premur Fijngrunum, þa skal Yfersetu-Konann smyria sijna Hønd og Handlegg, so sem adur er sagt, og taka wt þad lifrada Blood, af hvoriu Hælsenn a Moodur-Lijfenu er Veniulega uppfylltur, þar epter fare hun med Høndena upp betur, Enn ef ad Munnenn a Moodur-Lijfenu er ei nooglega opnadur, þa gioreſt þad med allre Hægd smaamsamann ad glenna wt Fijngurnar, og komaſt inn i giegnum Barns-Fylgiuna, sem Veniulega verdur fyrſt fyrer i þvilijku Tilfelle, sijdann skal snwa Barnenu, sem i þessa Kvers sijdara Parte sagt mun verda. Epter Fædinguna skal Konann veraølldunges kyrr, og sie henne giefed opt, enn lijted i hvort Sinn af þunnre Hafur edur Bygg-Swpu, med faaum sundur-steittum nwnum Mandelum, Sija svo Swpuna med øllu, þo maa þesse Swpa i Fyrstunne ecke vera of-sterk.

# VIII. Capitule.

## Umm Hrijdernar og þeirra Adgreining.

1. Eru Hriidernar margſlags?

Eptir þvi hier verdur talad alleina um þær Hriider, ſem Yferſetu-Konan ſkal þeckia, ſo hun kuñe ad frelſa Konuna, þa adgreinaſt þær i riettar og falſkar Hriider; Fyrer utañ ad tala um Verk i Maganum, ſem optlega af Ovønum Yferſetu-Konum, er halldeñ fyrer Hriider, edur þær ſinæ Hræringar, ſem þwngadar Konur fiña opt til æ þeim ſeinaſta Mæanude; Edur og uñ Epter-Hriider, ſem koma epter þad Konañ hefur aled Barned, hellſt hiæ þeim ſem opt hafa Barn ætt.

2. Hvorneñ adgreineſt Maga-Verkureñ, falſkar og riettar Hriider, ſiin i mille hvor fræ añare?

Þad verdur beſt med Ranſookneñe; Þvi vid Maga-Verkeñ umbreiteſt Muñeñ æ Moodur-Liiſenn eckert; Eñ af þeim følſku Hriidum, jafnvel þo þær giøre Konuñe ſtoora Angiſt og Verke, dregſt Muñeñ ſamañ; Eñ þar þvert æ moote, vid þær riettu Hriider, ſem koma fræ Bakenu, nidur ad Fædingar-Stadnum, og þreingia ad af meira Megne, og ſtanda leingur

yfer

yfer, þo med minne Angist og Svita, enn vid þær følsku opnast Munnenn meira og meira.

3. Hvad a ad giøra vid þær følsku Hrijder?

Pad skal bidia Konuna ad hafa Polenmæde, og umfram allt ad espa þær ecke, helldur leitast vid ad lina þær og stilla, so framt Madur vill þær umbreitest i riettar Hrijder.

# IX. Capitule.

## Um Naatturlega Fæding.

1. Med hvørsu mørgum hætte maa haga Konunne, þa hun skal fæda?

MED Þrennu Moote: Ad hun sie Sitiande, Standande, eda Liggiande.

2. Hvørnenn er hwed um hana Sitiande?

Par til er brwkadur sierlegur Stooll, og maa Sess Fiølenn sem aa er seted, ecke vera of-breid Bak til, so Daus-Beined sie lidugt, ad giefa sig til Baka i Fædingunne; Eins skal og um Bak-Fiølena vera, ad hun sie annadhvørt laus, so hun meige takast i burtu, edur leggiast nidur, uppaa bad ad Konann meige leggiast aa Baked, ef Naudsyn

udsyn krefur; Enn þeir sem ecke hafa þess-
ann Stool, kunna ad brwka Fioora jafnhæ-
sa Stoola, sem sijdar skal sagt verda.

3. Hvornenn er bwed umm hana Standande?

Hun skal standa annadhvert a Footun-
um edur Kniænum, þo so hun stidie sig vid
Bord edur Kistu, enn Yfersetu-Konann er
þa æ Bak til vid hana, ad hiælpa til og
taka æ moote Barnenu, hver Sidur þo
ei er veniulegur, utann vissar Orsaker knye
til.

4. Enn hvornenn er bwed umm hana Liggiande?

Annadhvort hun legst i Sængena, og
Yfersetu-Konann stendur til Foota, sem þo
er miøg Ohægt, ellegar hun er løgd i stutta
Sæng, giorda af Fioorum jafn-hæsum
Stoolum, sem setiast Tveir og Tveir hver
moote ødrum fast samann, þar ofan æ er
løgd hard-støppud Dijna, edur Sæng,
sijdann þar ofan æ, næld Reckiu-Vod, og
næe ofan æ Goolf ad framannverdu, og
þar sem Konann liggur med Miadmernar,
skal leggiast breidt Hand-Klæde þvert umm,
til þess ad henne verde lypt upp ef þess þarf
vid; Under Høfuded vid Veggenn er lææt-
enn Kodde, sem i Rwme. J Pridia Mæ-

ta,

ta, kañ Madur taka Stool med Vrijkum/ og setia Baked a hønum vid Veggeñ, og Tvo Stoola fyrer framañ hañ, eins haaſa, og laata sinwa Bøkunum ad Vrijkar-Stooluum, þar epter bindur Madur samañ þa Tvo fremre Fæturna, sem næster eru hverier ødrum, a þeim Tveimur Stoolum med Bøndum, setur siidañ Hnied a noote Bardenu og dregur til sijn med baadum Hendum, þa Tvo fremre Fætur af sømu Stoolum, sem eru leingst hver fraa ødrum, og yter þeim so samañ, ad þeir ecke stande hvør fraa ødrum yfer eitt Kvartel, þar med yter Madur þeim til baka ad Vrijkar-Stoolnum, og leggur ofan a Dijnu, og añad sem fyrr er sagt; Eñ þar sem Biled er a mille þeirra Tveggia Stoolaña, nidur þrycker Madur Dijnuñe med Hendeñe, so Yfersetu-Konañ giete hæglega hrært Høndena, epter siñe Pocknan; Hiñ Añar Uñbwninguren, er same og uñ Fioora Stoolana er sagt; Eñ þeña Uñ-Bwning helld eg þañ besta af þessum, og hægasta fyrer Konuna til ad hafa Hvijld med, fyrer Miadmernar. Þar fyrer utañ er þesse stutta Sæng þvi hægre,

hægre, sem hun er hærre.

5. Nær brwkast þesse Sæng ?

Hun er heutug þegar Konañ kañ ei ad fæda, nema fyrer Hiaalp og nærkvæmar Handa Tilfekter, og þar fyrer utañ er hun alltijd Hagkvæm fyrer Barn-Sængur Konur ad fæda i.

6. Hvȳerneñ liggur Konañ i þessare Sæng?

Hun liggur so sem a Bakid, þo ei leingra upp vid, eñ so ad Fædingar-Stadureñ sie frij, edur moots vid Endañ a Dynuñe; Sijdañ standa adrar a bædar Sijdur vid hana, til ad hallda uñ heñar Knie og Fætur, eñ Yfersetu-Konañ setur sig frañ añ fyrer heñe.

7. Fædast lifande Born med mørgu moote?

Preñslags moote; Þvi fyrst kemur añ adhvørt Høfuded, edur Fæturner, ellegar og Dauseñ; Af hverium sa fyrste Maate kallast Nætturleg Fæding, epter þvi flest Born fædast þañiñ, og þad opt utañ añara Hiaalp. Hiner tveir Mætar, nær Fætur edur Bakhluteñ, koma fyrst i lioos, kallast ecke nætturleg Fæding, hvar uñ talad

talad skal verda i siidare Partinum.

8. Af hveriu veit Madur þad, ad Høfud-ed vill fyrst fædast?

Nær Konañ er ransøkud, so finst strax (jafnvel þo Moodur-Lijfsens Muñe hafe ei opnad sig) til Høfudsins, sem til kringlotz Hnattar.

9. Hvorneñ geingur til i Nætturlegre Fædingu?

Þegar Moodur-Lijfsens Muñe er opnadur af adþreingiande Hrijdum, so fiñast Himnurnar eda Forniisted, aasamt med Fostrinu: Loksins þa Hrijdernar þreingia meira ad, brestur Forniisted, og Vatnid sem þar er i, reñur wt; Þa fiñur Madur bert Barnsins Høfud, hvort ad kemur strax til Fædingar-Stadarens, ef Hrijdernar hallda vid, og uñ siider kemur allur Lijkameñ.

10. Kañ Yfersetu-Konañ ad hiælpa nockud hier til?

Nærsta eckert; Þvi mørg Børn fædast so aan nockrar Hiælpar, eñ af þvi þetta skedur ecke alltijd eins hæglega, þo Barned vere riett ad, þa þarf Yfersetu-Konuñar vid. 1. Ad hiælpa Konuñe i Sott

eñe.

iñe. 2. Ad hiaalpa til Fædingariñar, þad fyrra giører hun i þvi, ad bua uñ Konuna og hagræda heñe so hun kuñe þess betur, ad brwka sijna Krapta i Fædinguñe; Hid añad giører hun med þvi, ad taka i burt, þad sem hindra kañ Barnsins Fædingu, og epter þad Høfuded er fædt, hialpar hun til ad allur Lijkameñ fædest og so; Sijdañ tekur hun wt Barns Filgiuna, bindur fyrer Nablañ aa Barninu, og uñ Konuna, og hiaalpar heñe sijdañ upp i Rumed.

11. Hvorneñ hiaalpar Yfersetu-Konañ til Fædingareñar?

Þad giører hun med Orduni og Verkum, med Ordum skedur þad nær hun veit i rettañ Tijma ad raada Konuñe, bæde ad hiaalpa til med sijnum Kroptum, sem og ad baña heñe þad, til Dæmis: Ef hun situr yfer midalldra Konu, sem ei hefur aadur Barn fædt, þa maa hun ei hallda heñe til ad erfida med, helldur laata Hrijdernar verka þad, og fara seint, og hafa Poliñunæde yfer heñe; Þvi slijkrar Konu Limer, sem aadur hafa ei vered opnader, og eru seiger og harder, opnast ei

aan

ann Hrijda, og med Langseme eins þa Forniſted ſprijngur of ſlioott og Vatned renn-ur of ſnemma, þa geingur þad ſeint, ſo Madur hlijtur ad laata Naatturuna raada, og leiſa ecke, ad Konann ſo ſpile ſijnum Kroptum; Þo a þetta ad ſkiliaſt, umm þad, þegar Barnid ber riett ad. Med Verkenu hiaalpar Yferſetu-Konann til, þegar Munn-enn a Moodur-Lijfenu er noog opnadur og Forniſted er ei broſted, ad hun med meſtu Hægd og Varud, a mille Hrijdanna, ad Forniſted ei breſte, ſmeger Høndinne upp med Forniſtenu inn i Moodur-Lijfed, ad vita hvar Barnſens Høfud ſie, edur ef nockur annar Limur kiemur nidur med Høfdinu, ber hun ſig ad med Hægd ad yta hønum til baka, og retter Barnid vid ſlijkt ſem hun kann, ef þad liggur ecke riett; Villie ſo til ad Hrijdenn kome a medann, þa hallde hun Høndinne kyrre, þar til hun er aflidenn, ſijdann ranſake hun; Þar næſt ef Himnurnar eru oſſeigar, ſo þær rifna ecke, helldur þreingiaſt jafnvel ut ſtundum fyrer Fædingar-Stadinn, og hindra þar med Fædinguna, þa ma forſtandug Yferſetu-Kona ſiaa til ad þær breſte, hvad beſt kann

ad ske med Kante af Salt-Mola, edur ødru moote, epter þvi sem heñe þocknast, so Vatned reñe fra, og Hrijdernar, hveriar allar forgiefens lenda a Fornistenu, kyñe ad flijta Barnsins Fædingu; Þo skal hafa gooda Tilsioon i þvi, ad þetta verde ei of-fliott, fyrr eñ Moodur-Lijffens Muñe er vel opnadur, og Barned þar med þerriett ad, so ad Høfuded kyñe ad koma strax epter, þegar Fornisted er sprunged; Þvi ef Moodur-Lijffens Muñe er ei vel opnadur, þa hindrast Fædingeñ, þar Fornisted adur eñ þad sprijngur, opnar betur Muñañ a Moodur-Lijfenu, helldur eñ Barnsins Høfud: Þar næst hiælpar Yfersetu-Konañ til Fædingariñar, þa hun veit ad eitthvad stendur fyrer Barnsins Høfde, med þvi hun fer med Fingurnar i mille þess, og Barnsins Høfuds, og lidkar þad so, ad eingeñ Fyrerstada verdur.

12. Hvorneñ hiælpar Yfersetu-Konañ, þegar Muñeñ æ Moodur-Lijfenu hindrar Foosturseus Fædingu?

Þad er hætt vid optlega, þeim sem hafa nidursijgiñ Kvid, ad Moodur-Lijffens Muñe kiemur i Veigeñ fyrer Barnsins Høf-

Høfud, framañ til vid Lijf-Beined, so sem Skiñ-Boot, og hindrar þar med Fooſturſens Frañkomu; Þegar þetta skedur, og Yfersetu-Konañ veit þad, þa skal hün sem Vareygdarsamlegast yta hønum til baka upp med Lijf-Beinenu med sijnum tveimur Fingrum, þangad til Barnsins Høfud kemur ofañ i Moodur-Lijffens Haals.

13. Med hveriu moote getur Yfersetu-Konañ hiaalpad, þegar Barnsins Høfud hefur þreyngst ofañ i Moodur-Lijffens Haals, eñ vegna þess stærdar kañ ei leingra ad komast?

Þa skal hun med þvi Handklæde, sem er under Konuñar Miodmum, laata tvær Persoonur lypta upp Konuñe hooglega, medañ Hrijdernar yferstanda, eñ þegar þær eru afſtadnar, þa skal laata Konuna sijga nidur aptur og hvijla sig; Þridia Persoonañ hlijtur og ad vera vid, sem med siñe flatre Hønd skal hægt og gegnelega, þreingia ad Kvid Konuñar, medañ Hrijdernar yferstanda, eñ strax sem þær lina, þa ligge Høndiñ hægt a Kvidnum, og þrijste eckert þar til þær koma aptur, og þeg ar þetta er allt vel athugad, þa kañ þad

mieed ad hiaalpa til, ad Hrijdernar þreyn-
ge þeſs betur ad, ſo Barned fædeſt.

14. Hvad er ad ottaſt, þegar Hofudid er komid ofann leingſt i Fædingar-Stad-inn, og hvert Raad er vid þvi?

So ſem þad Høfuded kann ei ad fædaſt i lioos, fyrr enn þad hefur fært Moodur-Lijfſens Munna ofann fyrer Lijfbeined, og kemur fyrſt i lioos ſem Baun wr Hyde, og i þeſſu kvartar Konann almennelega yfer Verk i Parfagaangenum, hver ſig giefur þa i bland wt, ſo ſem ſtoor Val-Nit; Hvar fyrer naalæger ſegia Yferſetu-Konunne ad hallda þar vel i moote; So verdur og ſtundum, einkum hiaa þeim, ſem i fyrſta ſinne fæda, ad Høfuded hitter ecke þann þraungva Gang, og hindraſt ecke alleinaſta hier af, helldur og af þvi, ad Hnackinn (ſem i Naatturlegre Fædingu kiemur fyrſt i lioos) Borar ſig i gegnum Midveggenn, ſo ad Fædingar-Staduренn rifnar allt ad Parfagaangenum, og ſkemmer hann ſo a ſtundum, ad Konann alldrei ſijdann kann ad hallda ſijnum Stool-gaange; Ad varna ſliku, ſkal Yferſetu-Konann ecke hallda neinu Klæde fyrer Parfagaangenum, ſo ſem Venia er

til, þvi slijkt hindrar Barnsins Fæding, og þar fyrer utañ hiaalpar þad eckert, helldur skal hun smiria alla sijna Fijngur a baadum Hondum, og fara med þær iñ i Fædingar-Stadiñ, ad Barnsins Høfde, og vid hveria Hrijd, lidka til med þeim a baadar Sijdur, fra Høfdinu smamsamañ, moote Þarfagaangenum; Og sijdañ smamsamañ giørä Høfuded bert; Þegar Høfuded er ad mestu komid ofañ fyrer Lijf-Beined, so Yfirsetu-Konuñe syneſt sem hun kuñe ad naa þvi fram, þa skal hun Raadleggia Konuñe, ad hiaalpa til af øllum Kroptum, og þa Hrijdernar eru hardastar, yter hun til baka i einu aadurnefndri Skiñ-Boot, til Þarfagangsins avid, og i þvi sama kemur Høfuded frañ. J þvi siñ Høfuded kemur wt, þa leggur Yfirsetu-Konañ sijnar Hendur flatar ad Barnsins Høfde, a baadar sijdur, og Fijngurnar aptur fyrer Eyruñ uñ Kiaalkana, dregur so Barnid til sijn nidur ad Golfinu med nockri Akiefd, eñ þo Hnickialaust, so Axlernar kome strax epter Høfdinu, ofañ i Fædingar-Stadiñ, so hañ fare ei Tijma til ad kreppa sig ad Barnsins Haalse.

15. Hvad er vid þvi, þa Nafla-Streing-ureñ hindrar Fæðinguna?

So sem Nafla-Streingureñ hindrar med Tveñu Moote Fædinguna, so þarf og Tveñslags Maata edur Handa-Tiltekt ad varna slijku. 1.) Er hañ til Hindrun ar þegar hañ fer undañ Barnsens Hofde, og er slijkt miøg Hættulegt fyrer Barnsins Lijf, Ef leinge þrøynger ad Nafla-Streingnum, þar fyrer, strax sem Yfersetu-Konañ sier, þa Fornisted er komed, ad Nafla-Streingureñ haanger wt, skal hun leggia Konuna aa Baked, so ad Lendarnar sieu hærre eñ allur Lijkameñ ad ofañ, og hid snarasta, fyrr eñ Barned kiemur, yta Nafla-Streingnum med allre Hendeñe, til Baka aptur, sierdeilis ef hun ei med Fijngrunum kañ ad giøra þetta, og koma hønum iñ fyrer Barnsins Høfud, hvøriu hun skal siaa til ad koma ofañ i Fædingar-Stadeñ, so þad hindre Nafla-Streingsens Utrensle, eñ hiaalpe ecke þetta, þa take Lerepts-Boot, og binde um̃ hana Tviña, og leitest so vid ad yta heñe iñ med Fijngrunum, eda Spada þar til-giørdum, þaangad sem Nafla-Streingureñ leitar

aa,

aa, eñ duge þetta ecke hélldur, þa leitist hun vid ad snwa Barnenu, og laata Fæturnar fyrst fædast; Þvi ef þad fædest Naatturlega, þa er varla Von, ad þad kome med Lijfe i Lioos, þar Nafla-Streingureñ kreistest þañeñ; Hvar fyrer best og vissast er, ad snwa strax Barnenu, nær slijkur Vande uppaa fellur. 2.) Hindrar hañ Fædinguna, og er skadsamlegur þa hañ er Ein-vafeñ eda optar uñ Barnsins Haals, sem Yfersetu-Konañ kañ ecke vel ad vita, fyrre eñ Høfuded er fædt, þa skal hun hid sliootasta, leitast vid ad losa hañ af Haalsenum, Eñ sie hañ marg-vafeñ þar uñ, so hun giete ecke sliootlega leyst hañ, maa hun Ohrædd skiera hañ sundur, og laata Eina af þeim nærverande Konum, hallda fast fyrer Endana baada, edur binda fyrer þa hid sliootasta, sijdañ skal hun hid fyrsta koma Barnenu i Lioos, og binda fyrer þess Nafla, ef þad er ei aadur giört, epter þvi sem sijdar sagt verdur.

## X. Capitule.

### Uñ Fædingu Tvijbura.

1. Hvørneñ kañ Madur vita þad, ad Konañ geingur med Tvijbura, edur fleire Børn?

Ekkert er vÿst um̃ þad, fyrr eñ þad fyrra Barned er fædt, þegar Yfersetu-Konañ formerker ad epter er eñ añad Forniste, edur Vatns-Belgur, eins og var fyrer þvi fyrra Barnenu.

2. Hvørneñ skal Yfersetu-Konañ haga sier i þessu?

Hun bindur fyrer Nafla þess fyrra Barnsens, afhender þad, og lætur þess Fylgiu vera kyrra, þvi bæde Børneñ hafa Almeñelega sem eina Fylgiu, þo þau hafe hvørt fyrer sig sijnar Himnur eda Lijknar-Belge, sijdañ opnar hun þad sijdara Forniſted; Hvad hun maa Hættulauſt giøra; (Þar Muñeñ aa Moodur-Lijfenu er noog opnadur af þvi fyrra Barnenu) siñe hun sijdara Barnenu snwe riett (sem miøg skialldan er) so ad þess Høfur þreinge sier nidur i Fædingar-Stadiñ, þa lætur hun þad fædast Naatturlega af Hrijdaña Epter-Rekstre, eñ snwe Barned ei riett, þa þarf hun ecke ad ætla uppaa Hrijdernar, helldur spreingia Forniſted strax, og snwa Barninu,

ninu, so Konann verde þess fliootara leyst;
Med sama Hætte kiemst Yfirsetu-Konann
ad þvi, hvort enn nu sieu fleire Børn epter,
Ad Sijdustu þa øll Børn eru fædd, og
bunded fyrer þeirra Nafla, greider hun
Hag Konunnar, eins og hun hefde fædt eitt
Barn, Nefnelega: Ad hun vefur alla
Lækena eda Nafla-Streingena umm Hønd
sier, og dregur so Barns-Filgiuna wt.

## XI. Capitule.

### Ad binda fyrer Naflann.

### Hvornenn skiedur þad?

NÆR Yfirsetu-Konann hefur lagt Barned i sijna Kiolltu, þa lætur hun sinn Fijngur Jnn i Barnsens Munn, og tekur i burt þad Slijm, og Obreinende, sem þar eru og hindra Barned ad naa Andanum; Þvi næst tekur hun Nafla-Praaden sem er af Fioor-følldu edur Sex-følldu Bande samann-lagdur, hier umm haalfrar Alnar laangur med sijnum Hnwte aa hverium Enda, og Ein-Vefur med einum Hnwt yfer umm Nafla-Strenngenn, so enn nu optar med einum Hnwt,

og sijdañ eñ optar med fleire Huwtum, so
þad hallde, og lætur þad vera Priggia ed'
ur Fiogra Fijngra breidt fraa Naflanum,
sijdañ skier hun Nafla-Streingeñ Tvegg'
ia Fijngra Breidd fyrer framañ Banded,
vefur so Barned i volgu Klæde, og tekur
Filgiuna; Eñ þad er vel athugande, ad
þad sem bundeñ er med Barnsens Nable,
sie miwkt og sterkt, þvi þad maa ei vera
hardt og mioott, ad þad skiere ei Streing-
eñ; Añad þad, ad Madur verdur ad bin-
da fast, so Blooded reñe ei fraa Barnenu,
sem hæglega skiedur, þegar Nabla-Stre-
ingureñ, epter þad hañ er bundeñ, dregst
meir og meir iñ; Po maa ei binda of-fast,
ad ei skierest Streingureñ þar med i
sundur.

## XII. Capitule.

### Um̃ Barns-Filgiuñar Ut-tekt.

1. Hvad kilst fyrer Barns-Filgiuna?

Fyrer Barns-Filgiuna merkest allt þad sem Epterfylger Barnenu Naatturlega, sem er sialf Filgiañ, Lækureñ og Belgerner edur Sigurkufleñ, er so kallast, þa nockud kiemur aa Barnsens Höfde.

2. Á þetta allt strax ad takast burtu epter Fæðinguna?

Jaa þad er hardla Naudsynlegt: Þvi ef nockud verdur epter af Filgiunne, þa er þad Ordsök Konunne til Dauda, edur ad minsta Koste til mikels Siwkdooms.

3. Hvar er Filgiann?

Alltijd inst i Moodur-Lijfenu, og þo þad virdest ödruvijse stundum, þa kiemur þad þar af, ad Moodur-Lijfed hefur kastad sier til annarar hvorrar Sijdunnar.

4. Hvornenn aa ad taka Barns-Filgiuna?

Ecke maa, sem Almennelega skiedur, einasta draga Nafla-Streingenn ad sier, og taka svo þar med Filgiuna, helldur ad naa til hennar siaalfrar, vegna Tvöfalldrar Orsakar: 1.) Ef ad Filgiann er grooenn vid, þa kann Streingurenn ef hann er veikur ad slitna fraa, sem ecke maa, þvi hann er Leidarvijser til Filgiunnar. 2.) Ef Streingurenn er sterkare, enn so ad hann slitne, þa er hætt vid, ad Moodur-Lijfed dragest wt med Filgiunne, vid hvört hun er grooenn, og snwest umm, so Konann er þar fyrer i Lijfs-Haaska, ef eingenn er naalægur, sem strax kann ad koma þvi riett fyrer aptur; Þar fyrer,

under eins og Barned er fædt, og fyrr eñ bunded er fyrer Barnſens Nafla, (þvi þad kañ oñur Kona ad giøra i Naudſyn) ſkal ſtrax æ medañ Moodur-Lijfed er oped, Tvij-veſta Streingnum um̃ Fijngurnar æ Vinſtre Hendeñe, og hallda heñe ſtødugt ad ſier, ſijdañ med Hægre Hendeñe, fara iñ epter Streingnum upp i Moodur-Lijfed ad Filgiuñe, ſie hun þa laus, og ſo ſem fellur ſiœlfkrafa i Yferſetu-Konuñar Hønd, þa tekur hun alleinaſta hana med fremſtu Fijngrunum, og dregur ſo Streingeñ med Vinſtre Hendeñe, eñ Filgiuna med þeirre Hægre; Sie hun ſtoor, ſo hun gietur ecke hæglega komeſt gieguum Fædingar-Staden, þa ſkal bidia Konuna ad hooſta nockrum Siñum, og hiœlpa þar med til, þa kiemur Filgiañ ſtrax wt; Eñ ſie hun grooeñ vid, þa ſkal giøra ſem ſagt er, og fara med Hægre Hondena upp, og þreifa allt i kríng um̃ Filgiuna, hvørt hun ſie ordeñ laus nockur Stadar, þa ſkal Yferſetu-Konañ lidka til med Fijngrunum millum heñar og Moodur-Lijfſins meira og meira, þar til hun er ølldungis laus, og fellur i Konuñar Hønd; Vilie

þetta eige verda med einum Fijngre, þa ſkal hafa þa alla Fioora til þeſs, og ſkilia Fylgiuna fra Moodur-Lijfinu med Vijſe Fijngre og Laungu-Taung, eñ med hinum tveimur yta Moodur-Lijfenu fraa Fylgiuñe, þetta ſkal giora þar til hun er laus ad ollu leite, ſijdañ dregur Konañ ut Fylgiuna ſem fyrr er ſagt, medañ Fylgiañ er þañiñ loſud, þa ſtodar þad miked, ef einhver oñur nærſtadd:a leggur flata Hønd, utañ a Koñuñar Kvid, og helldur heñe ſtødugt a mote þeirre Hende, ſem Jñvortis er. Yferſetu-Konañ ſem loſar Fylgiuna, ſkal klippa vel ſijnar Neglur af, ſo ad Moodur-Lijfed fae þar øngvañ Skada af, þegar þetta er giørt med Forſtande og Varud, þa er þetta øngvañveigeñ Skadſamt, helldur miklu betra fyrer Konuna, ſo heñe verdur þar af betra og liettara.

5. Hvad ſkal Yferſetu-Konañ giora epter þetta af-ſtaded?

Under eins og Filgiañ er burtttekeñ, er fared med Hondeñe iñ aptur i Moodur-Lijfed, til ad hreinſa wr þvi, þad ſem epter hefur orded af Hollde, Lijknabelg, Blood-Lifrum og ødru þvilijku, og þegar Yferſetu-

setu-Konañ er viss um, ad Moodur-Lijfed er vel hreinsad, maa hun ecke draga Høndena wt til sijn strax, helldur hallda heñe þar kyrre nockud, og laata Moodur-Lijfed falla samañ i Hrucktur utañ uñ Høndena, og þa maa hun taka Høndena hægt til sijn, verde Moodur-Lijfed O-jafnt, þa skal þad jafna og slietta og koma øllu i Lag; Eins skal og giøra vid Moodur-Lijfsens Muña, jafna allt og i burtu taka, allt þad sem ecke aa ad vera, og Orsaka kañ Skada.

6. Til hvørs gagnar þetta allt?

Þad hindrar þad, ad Konañ lijdur hvørge nærre so miklar Epter-Hrijder og Verke, sem añars, ef ei være giørt, so sem Reynslañ hefur þad kient, þvi þegar Moodur-Lijfed er ecke vel hreinsad, og þar verdur nockud epter, og þad er ecke vel sett i Lag aptur, þa er Konañ mørgum Vandasømum Tilfellum undervorpeñ; Þo er hier ad athuga, ad stundum er Moodur-Lijfed orded so hardt, ad þad kañ ecke þar fyrer samañ ad dragast; Og þa er forgiefens ad hallda Høndeñe so leinge i þvi, þar til þad er samañ dreiged; Þvi vid slijku kañ ecke

Yfer-

Yfersetu-Konann ad giora.

7. Hvornenn aa ad naa Barns-Filgiunne, þegar Lækurenn er slitenn?

Eins og aadur er sagt skal Yfersetu-Konann fara upp med Hondena og taka wt Filgiuna, eins og fyrr, enn þad rijdur aa þvi, ad Yfersetu-Konann kunne ad giora Adgreining med Hondenne, millum Filgiunnar og siaalfs Moodur-Lijffins, hvorn Mismun edur Adgreining, þær stooru Ædar, sem eru i Barns-Filgiunne giefa ad þeckia nockurn veigenn.

8. Þegar þetta allt er skied, hvad skal sijdann giora?

Yfersetu-Konann leggur varmt Klæde yfer Fædingar-Stadenn, og Jter þvi sem næst honum, bindur sijdann med heitu Lijn Klæde umm Lijf aa Konunne, og hiaalpar henne þad hægast verdur upp i Sængena, og rædur henne ad liggia kyrre, sem hellst hun maa þola, og ad eta ecke, edur drecka nockurn Mat, edur Dryck, sem sterkur er; Allra sijst Brennevijn, þvi þad er so skadlegt fyrer hana, sem Madur villde slockva Elld med Oliu.

* * *
** ** **

Annar



# Annar Part-URENN.

Um̃ þa O-Naatturlegu Lausn, sem med Lærdooms-Kunst skiedur; Og hennar Orsaker.

## I. Capitule.

### Um̃ þrangva Skaal og hennar Utrymkun.

1. Hvor Orsøk er til þess, ad ein Kona fæder med hægra moote en̄ hin Auñur, aasamt ad ein og hin sama Kona fæder i eitt Siñe hæglegar, helldur en̄ i annad Siñ?

Vad þvi Fyrra viđvijkur, þa kan̄ sialfrar Konuñar Skapnadur, vera Orsøk til straangrar Fæding-ar; En̄ til hins Annars, er annadhvert Mod-ur-Lijfed Orsøk, þa þad liggur skackt, edur Foostred, þa þad er of-stoort, ellegar þad sniji O-hentuglega, Jafnvel kan̄ hvert-tveggia þetta vera Orsøk þar til, hvar um̃ sijdar skal høndlad verda.

2. Ihvoriu er þad innefaled, ad Skapnadur þeirrar einu Konunnar er hagkvæmare til ad fæda enn hinar Annarar?

Fyrer utann Veikleika þa, sem slijkum Lijkamans Pörtum kann til ad falla, og stoorum eru Orsøk til Hindrunar, þa er þad sierdeilis innefaled i þessu Tvennu. 1.) Ad ein Kona hefur lidugre Limu, sem betur kunna opna sig, enn hin önnur, hvar umm adur er talad. 2.) Ad su eina hefur stoora vijda Skaal (edur Miadma-Hrijng) enn hin Aunnur þraungva, og flata, umm hvad nu skal sagt verda.

3. Hvad er þad sem kallast, þraung edur flot Skaal?

Þegar Kross-Beined asamt Dauss-Beinenu er miøg beigt inn a vid moote Lijf-Beinenu, og Dauss-Beined er ecke adskiled (sem þad Naatturlega a ad vera) i Þriu sinaa Briooskkiend Bein, helldur eru samann grooenn so fast, ad þau eru ordenn so sem Eitt med Kross-Beinenu, þa kallast þad þraung og flot Skaal; Hvad Yfersetu-Konann faer ad vita, bæde med Rannsookneñe, sem og þegar Barned, þo allt sie vel, kiemur framm seinlega, Jaa stendur

olldungis kirt, þa komed er underFæding-
una.

4. Hvad kan Yfersetu-Konan ad
giora vid þessu?

1.) Setur hun Konuna i Stoolen, edur leggur hana aa stutta Sæng, bijr vel um hana (epter Lands Sid) so Daus-Bel ned ligge ecke nockurstadar aa, edur kome vid, helldur sie olldungis hindrunarlaust, ad þad kunne ad giefa sig wt Bak til; Þar epter ser hun med Hondena Inn i Fædingar-Staden so laangt sem hun gietur, og snijr Henne so, ad Handar-Baked ligge flatt med Kross-Beinenu, og hun med sijnum Fijngrum faae teked um Barnsens Hofud, þo so hun yte ei Barnenu med þeim til baka, hveriu (sie þad en i Moodur-Lijfe) hun maa leitast vid ad naa, og þa hun hefur komed Hondenne fyrer, skal hun hallda henne kyrre, þar til hun finnur ad Hrijd kiemur (hveria hun merker fyrr en Konan siaalf, af þvi Fædingar-Staduren so sem hrisstest vid) þa aamiñer hun Konuna, ad hun med Tilkomande Hrijd, herde a epter, af ollum Kroptum; En nær Hryden kemur, þa þrijster Yfersetu-Konan

añ med Handar-Bakinu, æ meir og meir Sess-Beininu til baka, sem mogulegt er, epter þvi sẽ Hrijden vex, eñ i þvi hun þrijster so þañiñ, dregur hun hægt Hondina til sijn, so Hofud Barnsins kuñe ad fylgia med, nu sẽ Hrijdeñ er afstadiñ, þa yter Yfersetu-Konañ siñe Hond iñ aptur, og gior er eins sem ædur, og hagar sier oldungis æ sama Hætt, þetta giorer hun so opt, þar til hun, hvad epter añad getur næd Hofdinu i Lioos, eñ a mille hverrar Hrijdar, skal hun tala fyrer Konuñe med goodum Ordum og huggunarsamlegum, Hugthreystande hana med þvi, ad hun mune fæ flioota Lausn

5. Hvad a Yfersetu-Konañ til ad giora, þa Konañ fær ongvar Hrijder?

Pad er tvijllaust ad Hrijdernar koma þa Yfersetu-Konañ, sem fyrr segier, opnar Moodur-Lijfs Muñañ, og þrijster vel ut Dans-Beinenu til Baksins; Par ed of þvi muñbreitast ei alleinasta, falskar Hrijder i þær riettu, helldur og upporvar þad þa orþreyttu Nætturu til ad giefa nyar Hrijder, hvort Dagleg Reynsla vottar; Pad er ei Kvijdvænt ad Skade verde af þvi, þott

 soleid.

soleides sie vel utþrijst, þa varast er ad setia Hnwana ut, en Hondene vel riettre sem verdur, adhallded, þar þetta Handtak gioer ferfallt Gagn: 1.) Lifna vid aptur og lagfærast þær ad mestu leite ordofnudu Hrijder; 2.) Viijdkar Skaalinn, eda Midma-Hrijnguren, af þvi ad Daus-Beined þrijstest ut; 3.) Mykist Fædingar-Stadurinn af þeirre snurdu Hond, og verdur Haalare fyrer Barnid; 4.) Ad þær niisjofnu Hruckur sliettast þar af, og Begurinn greidist fyrer Hofde Barnsins, so Hrijdernar gieta af afli ytt epter þvi.

6. Enn hvorneñ skal Yfersetu-Konan koma Hondeñe i svo þraungvann Gaang, hellst hiaa þeirre, sem i Fyrsta Siñe fæder?

Epter þvi þau hellstu Preyngsle verda fyrst fyrer i Fædingar-Stadnum, so leitast Yfersetu-Konan, ad koma Hondeñe þar inn med Epterfylgiande Maata: Yfersetu-Konan lætur Fijngurnar af-laangar inn, og helldur þeim fast saman, og snijr Hondeñe hægt til og fraa i Fædingar-Stadnum; Enn sieu Preyngslen so mikel, ad hun gietur eige med þessu komest afram, þa lætur hun fyrst Priaa Fijngurnar

nar inn, og wtvijdkar Fœdingar-Stadenn med þeim, so ad þeim Fioorda Fijngrenum verde innkomed med; Utvijdkar so med ǫllum Fioorum Fijngrunum Fœdingar-Stadenn, ad Þumal-Fijngrenum verde og innkomed, sijdann riettar hun wt alla Fijngurnar, so hun kunne ad koma epter ꜵ allre Hondenne þar inn i; Þo er þad hier ad merkia, ad ei mꜵ wtvijdka Fœdingar-Stadenn, nema þegar Hrijdernar koma, þvi Konann finnur þa ecke miked til þess.

7. Hvornenn er best og hentugast ad lꜵta Konuna vera medann þetta skiedur?

Hun skal liggia i stuttre Sæng; Þvi ecke einasta er slijkt hægast fyrer Konuna, so ad Daus-Beined er lidugt, helldur gietur Yfersetu-Konann med meira Krapte ytt þeim Lim til Baka.

## II. Capitule.

### Umm Moodur-Lijffsens skacka-Legu, Almennelega ad tala.

1. Hvad merkest hier fyrer Moodur-Lijfsens skacka-Legu?

Til ad ſkilia þetta riett, hlijtur Mad ur ad þeckia vel Moodur-Lijffens Skapnad, hvar af ſieſt, ad þad er ad nedañverdu faſt vid Moodur-Lijffens Hals, eñ ofañ til er þad ølldunges lauſt, fyrer utañ þaug Fiøgur Bønd, Tvø aa hvøria Sijdu, ſem nooglega kuña hallda þvi i ſijnum rietta Stad, aa medañ Konañ er ei med Barne, eñ jafnſuart ſem hun er Barnshafande ordeñ, og Moodur-Lijfed vegna Fooſturſins Proſka þenſt ut, meir og meir, ſo þad er furdañlegt hvørneñ ſaa litle Partur Moodur-Lijffens, ſem er fyrer ofañ Bøndeñ, hefur ſig haatt upp, ſo hañ verdur hvad ſtærſtur af Moodur-Lijffenu, ſo ſem ſiaa maa af Figurunum freinſt i þeſſu Kvere. Þegar nu þeſſe Partur Moodur-Lijffens ſtijgur ſo haatt fyrer ofañ Skaalena, þa ſkiedur þad hæglega, ad þad kaſtaſt añad hvørt fram edur aptur, ellegar til añarar hvørrar Sijduñar, helſt ef Konañ er helldur von ad liggia aa eina Sijduna eñ adra, hvad ad er hin ſtærſta Orſøk til Moodur-Lijffens ſkøcku Legu, þvi þa kañ þeſſe Partur Moodur-Lijffens hæglega kaſtaſt til þeirrar Hlidareñar, og

yta

yfa fraa sier Pørmunum, sem eru lietter, til hiñar Sijduñar, og þetta er opt Orsøk til straangrar Fædingar.

2. Hvad gagnar þad ad Madur vite og skilie þessa Moodur-Lijssins skacka Legu?

Medañ Madur veit ei hvad adgeingur, og hvar af þad kiemur, gietur hañ ei vitad, hvad þar vid þienar; Eñ þar vier lærum nu hier af, hvad ad velldur flestum af þeim Erfidu Fædingum, kuñum vier þvi helldur ad fiña uppaa good Raad þar vid.

3. Hvorneñ kañ slijk skock Lega ad vera Orsøk til baagrar Fædingar?

Pad kañ hægt ad skiaast af þeirre undarlegu Legu sem Barned fær af þessu, Jafnvel þo þvi sie vel snwed; Til Dæmes, nær Moodur-Lijssens Botn er ecke riett yfer Skaaleñe, helldur hefur kastad sier til aña-rarhvørrar Hlidareñar, þa snijr Muñe Moodur-Lijssens þvert uñ til hiñar Sijduñar, af hvøriu Fædingeñ verdur þeim Mun baagare og torvelldare, sem Moodur-Lijsed hefur meira kastad sier til.

4. Af hvøriu þeckist þad, hvørsu Moodur-Lijsed hafe kastad sier til?

1.) Skal spyria Konuna hvar hun siñe

Fooſtred hellſt hrœra ſig. 2.) Ad Yfer-ſetu-Konañ leggur ſijna Hønd aa Kvid Konuñar, og finſt ſo ad nockru Leite, hvørt Moodur-Lijfed hefur kaſtad ſier. 3.) Pad Pridia og viſſaſta Merke er, nær Konañ er Ranſøkud, þa kañ ad þeckiaſt af Moodur-Lijſſens Muña, hvert þad hafe kaſtad ſier; Pvi þeſs Muñe, og Botn Moodur-Lijſſens ſtandaſt jafnañ aa, hvørt giegnt ødru, eins og aadur er ſagt, eñ þeſſe Ranſookn aa ad ſkie, ecke ſijdar eñ þa Konañ hid fyrſta kieñer Jood-Soottar, þvi ad nær Hrijdernar hafa þreyngt Moodur-Lijſſins Muña nidur i Skaalena, og ad nockru Leite opnad hañ, þa verdur ecke ſo fullkomlega aaliktad um̃ Moodur-Lijſſens Legu.

5. Hvørneñ ſtendur Moodur-Lijſſens Muñe, þegar hañ er Riett ſtandande ſem vera byriar?

Hañ ſtendur midt upp yfer Skaaleñe, ſo ad Madur fiñur allt i krijng Barmana aa Moodur-Lijſſens Muña, og þar med midt i heñe Forniſted, ſem wtþanda Vatns-Blødru, og þegar Madur fiñur allt þetta, aaſaimt Barned ad vera vel ſitwed, þa kuña Meñ ad vœnta goodrar og ſlootrar

rar Fœdingar, so ad Vareygd verdur at ad hafa, pad Barned falle ei fra Konunne, þegar hun hooftar, edur hefur nockrar adrar Hrœringar.

## III. Capitule.

### Umm pad, þegar Moodur-Lijfed hefur kastad sier til annarar hvorrar Sijdunnar.

1. Hvort er Merke til þess, ad Moodur-Lijfed hafe kastad sier (Til Dœmis) til Hœgre Sijdunnar?

Yrer utann pad, ad Konann finnur til þess, ad Barned hrœrer sig under hœgre Sijdunne, og Yfersetu-Konann, nær hun stidur sijne Hœgre Hønd at Kvid Konunnar, merker hid sama, þa eru þo þesse Epterfylgiande Teikn vissust, sem Madur kann ad finna med Ransookneñe, sem strax skal skie þegar Konann hefur teked Jood-Soottena, þa finnur hann ad Moodur-Lijffens Munne hefur dreiged sig haatt upp, so varla verdur naad til hanns, og so sem Moodur-Lijfed i slijkum Tilfellum liggur ei einasta wt vid Sijduna, helldur kastar sier Almennelega til Baksins, meir enn til

Kvidarens, so finst og ad Moodur-Lijfsins Munne stendur i moote Rondene, af þvi Vinstra Miadma-Beinenu og Lijf-Beinenu; Madur gietur þa og ei funded til alls Munnans, helldur til þess nedsta Barms af þonum; Til Barnsins Høfuds finst lijted edur eckert, helldur finnur hann giegnum Moodur-Lijfed Barned liggur þvert um yfer Skaalene; Vatned siest og optast nær renna burt fyrr enn varer, þar ed Fornisted sprijngur, af þvi þad steiter a aadur-greindum Beinum.

2. Hvor Hætta er þar vid, þegar Moodur-Lijfed liggur þannenn vid hægre Sijduna?

1.) Kann Konann ecke ad fæda Barned, Jafnvel þo hun hafe hinar hørdustu Hrijder, þvi Barnsens Høfud lender aa Beinenu, og er þar fyrer forgefens allt Konunnar Erfide. 2.) Barnsens Høfud-Skiel svignar olldungis Inn, so ad Barned fær þar af Bana. 3.) Jafnvel þo þad hende sig, ad meste Hlute Barnsens Høfuds fie fyrer nedann Rondena aa fyrr søgdu Beine, þa skiedur þad ad sonnu, ad Høfuded epter straangt og laangsamt Erfide,

þreyng-

þreyngest ofañ i Skaalena, eñ þo aa Hlid, og med beigdum Haalsenum, hvar epter, þegar þad er komed nidur i Fædingar-Staden̄, og Hofud-Skielen̄ siest, ad þad kiemst ei leingra, vegna þeſs ad Vinstre Orlen̄ a Barnenu stendur vid aadurnefnda Beins Rønd, og hindrar ad Hofuded kañ ecke leingra ad komast, hvar fyrer ad Konañ epter Mæduſamt og laangsamt Erfide deyr um̄ siider, og gietur ei fædt.

4.) Þar sem Moodur-Liifed hefur kastad sier so laangt wt under Hægre Siiduna, ad meste Hlute af Barnsens Hofde, stendur fyrer ofañ Bein-Røndena aa Vinstre Siiduna, þa kiemur añadhvort Hægre Orlen̄, edur Hægre Honden̄ nidur i Fædingar-Staden̄, og haanger so leinge wt, ad Konañ deyr med Fooſtred, sie heñe ecke hid allra fyrsta hiaalpad.

3. Hvorsu skal hier vid hiaalpa?

Med tveñslags moote, añadhvort ad Madur leitast vid, ad koma Barninu med Moodur-Liiſſens Muña, øldunges ofañ i Skaalena, ellegar hañ snijr Barninu, og tekur þad ut a Footunum; Hid fyrra giører Madur strax sem hañ kemur til sliikrar

Konu

Konu, ædur eñ Hrijdernar hafa þrijſt Moodur-Lijffins Muña, ollduuges ad Beinuñum; Pa lætur hañ Fingurnar a Hægri Hendiñe iñ i Moodur-Lijffens Muña, og hiaalpar henum ofañ i Skaalena; Hvad þo beſt ſkedur, ef Madur gietur komiſt med Fijngrenum upp yfer þañ efre Barm Moodur-Lijffins Muña, eñ kome Madur epter þad Moodur-Lijffins Muña er þrijſt olldunges ad Beininu, þa ſkal leggia Konuna a þa ſomu Hlid ſem Moodur-Lijfed hefur kaſtad ſier, uppa þad, ad Moodur-Lijfed med ſijnum Punga kyñe ad kaſtaſt fra Beinenu, og Madur giete þvi hæglegar komid Fijngrinum i mille Beinſins og Moodur-Lijffins Muña; Pegar þetta verdur giort, ſo ſkal Konañ leggia ſig a hina Hlidena, og under eins ſieu bednar þær ſem naalægar eru, ad lypta upp hægt Konuñar hægre Sijdu, og ſtidia a moote þeirre Vinſtri, og i þvi Hrijdernar koma, þa hiaalpar Madur Moodur-Lijffens Muña ofañ epter, og þær ſem naalægar eru yta ad utañ fra þeirre Hægri til Vinſtri Sijduñar, og med þeſſu getur Madur hindrad, þad Barnſins Hofud preſſeſt ecke vid

Beineñ

Beinen, helldur sijge nidur i Skaalena. Med ødru moote verdur soddan Konu hiaalpad sem er, ad Madur strax leite epter Footunum a Barninu, og snwi þvi, so þad verde dreiged ut a Footunum, hvar umm skijrlega hier epter skal høndlad verda.

4. Hvert af þessu tvenn er betra?

Þad er auglioost ad þad fyrra er bæde Vandasamt og Mædusamt, so Madur er ecke alltijd vissum ad hann giete frelsad Konuna þar med; Enn þad sijdara er bæde sliootara og vissara, hvar fyrer þessu er betra epter ad filgia, so sem bæde Skinsemen og Reynslan kienna.

5. Hvornenn hagar Yfersetu-Konan sier þegar Moodur-Lijsed hefur kastad sier til Vinstre Sijdunnar?

Eins og þegar þad hefur kastad sier til Hægre Sijdunnar, utann ad Yfersetu-Konan brwkar Vinstre Høndina, og leggur Konuna a Vinstre Sijduna epter þvi sem hagar.

## IV. Capitule.

### Umm Moodur-Lijssins Skacka-Legu frann yfer Lijf-Beined.

1. Hvør-

1. Hvorium Konum vill ſlijkt til?

Hæmeñelega, eñ ei alltijd, þeim ſem hafa nidurhœangande Kvid og mikeñ, hvar af þad kiemur, ad Barned fœdeſt uppilopt.

2. Hvort Merke er til þeſſarar Legu Moodur-Lijſſens?

Fyrer utañ þad Madur kañ nockurnveigeñ ad ſiœ ſlijkt med Augunum, og þreifa œ þvi med Høndunum, þa eru þeſſe Epterfylgiande Merke, ſem med Rañſookneñe fiñaſt, þaug viſſuſtu. 1.) Ad Madur fiñur Moodur-Lijſſins Muña mikſu hœrra uppdreigeñ eñ añars. 2.) Verdur þeſs vegna ecke utañ med Mœdu nœd til hañs, hvar fyrer margar lijtt-kuñande Yferſetu-Konur meina ad Moodur-Lijſſens Muñe hafe ei opnad ſig. 3.) Finſt Moodur-Lijſſens Muñe ad ſtanda ølldunges i moote þvi nedſta af Kroſs-Beinenu. 4.) Gietur Madur ei funded til meira af Moodur-Lijſſins Muña, eñ þañ nedſta Barm. 5. Veiter Mañe miøg ørdugt ad koma bognum Fijngrum iñ i Moodur-Lijfed. 6.) Formerkeſt vid hvørla Hrijd, ad Muñe Moodur-Lijſſins þrijſt-

eſt

ést ad Kross-Beinenu, aan þess hañ ýtest ofañ i Skaalena. 7.) Finst Fornisted ad standa olldunges flatt og mioott; Oll þesse Teikn þeckiast best i Upphafe, þa Konañ fær fyrst Hrijdernar.

3. Hvor Hiaalp er vid slijku?

Su, ad þar sem Yfersetu-Konañ kiemur i Tijma, skal hun bañа Konuñe med ollu Moote, ad hiaalpa til med Hrijdunum, og leggia hana so, ad efre Partur Lijkamans ligge æred laagt, þar epter fer hun med þa Høndena sem hentugast er, iñ i Muña Moodur-Lijfsins, soleidis ad Fijngurner kome i millum Kross-Beinsens og Moodur-Lijfsins Muña; Eñ sie Muñeñ so fastlega bricktur ad Hriggnum, ad ei verdur Þrautlaust komest þar i mille, þa er Konañ ecke løgd aa Baked, helldur setur hun hana fremst aa Stool-Brwnena, edur þeirrar stuttu Sængur, og lætur hana beigia sig aafrañ, ellegar hun skal standa aa Kniaanum, uppaa þad Moodur-Lijfsins Muñe kuñe þess helldur giefa sig fraa Bakenu, sijdañ kiemur Yfersetu-Konañ Fijngrenum mille Baksins, sem sagt er, og lætur hun þa Konuna rietta sig hægt upp-

upp aptur, og leggia ſig aa Baked, ſo Efre Hluteñ ligge laagt, eñ Lendarnar haatt, uppaa þad Moodur-Lijfed, ſem liggur framm yfer, kuñe ad kaſta ſier til Baka; Þar næſt lypter hun Koniñar Kvid, ſem hanger framm yfer, med þeirre einn Hendeñe upp, og yter honum hægt til Baka fraa ſier, og med añare Hendeñe, ſem hun helldur iñ i Fædingar-Stadnum, hiaalpar hun Muña Moodur-Lijffins og Barnſins Høfde ofañ i Skaalena, med þvi hun ruggar hægt med Fijngrenum vid þvi, hvar med under eins hindraſt, ad Moodur-Lijfſens Muñe þrijſtiſt ecke ad Bakinu, helldur gefur ſig nidur i Skaalena; hvad viſſulega ſkedur, þegar ſo er forſialliga giort med baadum Hondum.

4. Nær ſkal þetta gioraſt, hvort helldur aadur eñ Hrijdernar koma, edur medañ þær yferſtanda?

Þad ſkal gioraſt þegar Hrijdernar eru affſtadnar, eñ medañ þær ſtanda yfer, ſkal Madur hallda Hondiñe kyrre, þar til þær eru aflidnar, þa ſkal Yferſetu-Konañ taka til ſijns Verks aptur, og ei maa hun hætta fyrre, eñ Moodur-Lijffens Muñe med

Barn-

Barnsens Høfde hefur giefed sig nidur i Skaalena, enn þegar so laangt er komed, og Hrijdernar koma, þa er Tiime til, ad Konann, sem sig hefur hijngad til hvijlt, hiaalpe til sem hun kann.

5. Hvad skal sijdann giora?

Epter þvi þad hender opt, ad Barned stendur vid Kross-Beined og Daus-Beined, so verdur þvi ad hiaalpa wr slijkum Dreyngslum, med þvi ad yta þessum Beinum til baka, eins og sagt er i Fyrsta Captula þessa Partz.

6. Hvad er fremur hier i hellst ad athuga?

Sierdeilis þetta; Ad þegar þetta er allt giørt, sem sagt er, og Moodur Lijfsins Munni, med Barnsins Høfdi er vidriettur yfer Skaalina, so þad tekur til ad ytast nidur, þa ber vel ad athuga; þad Moodur-Lijfsins Munne kome ei jafn framt Barnsins Høfde, helldur skal hallda honum til baka med Fijngrunum, so hann kome ei med Høfdinu ofann i Dreyngslenn, þvi ef so skedur, þa kann þad hæglega ad afla Konunne Dauda, ef ein genn er naalægur, sem Vit hefur til, ad taka Barnid ut med Afle og frelsa þar med Kon-

unar Lijf; Þetta, Ad hallda Moodur-Lijffins Muña til baka, ber ecke einaſta i þeſſu Til-felle ad giora, helldur alltijd þa Barnſins Høfud fædiſt fyrſt.

## V. Capitule.

### Um̃ Moodur-Lijffins Skacka-Legu til Bakſins.

1. Hvorneñ hagar þeſſare ſkocku Legu Moodur-Lijffins?

Þſſti Partur Moodur-Lijffins liggur vid Bakid, og hefur ytt Þorn-unum fram̃ yfer ſig, hvar af þad naudſynlega fylger, ad Moodur-Lijffins Muñe ſtendur a moote Lijf-Beininu, ſo ad, þar ſem ſa efſte Partur Moodur-Lijffins liggur miøg til Bakſins, ad þeſs Muñe ſtendur meſt allur fyrer ofan Lijf-Beined.

2. Hver Vande er a ſlijku?

Sie Konuñe ecke i riettañ Tijma hiaalp-ad, þa þrijſtiſt Barnſins Høfud af Hrijd-unum ad Røndeñe a Lijf-Beininu, ſo þad deyr: Jañañ Maata; So ſem Barnid, medañ þad ſtendur moote Lijf-Beininu, kañ

kann ongvann veigenn ad fædast, nema þad sije, edur þvi verde hiaalpad, þar fra, so kemur þar af, ad Konann fyrer kemur sijnum Kroptum til onytis, so ad hun ad Lyktunum annad hvort halfdaud fæder andvana Fostur, (ef Barnid sijgur sialfkrafa nidur fraa Lijf-Beinunu :) edur hun deyr med Barnid ofædt.

3. Hvort Merke er til þessarar Moodur-Lijfsins Legu?

1.) Þar sem Þarmarner liggia framm yfer Moodur-Lijfed og hylia þad, þa finnur hvorke Konann sialf, edur adrer, til þess ad Barned hrærer sig, utann þad, ad Konann merker stundum vid Baked til þess, ad þad life. 2.) Kvidurenn fyrer ofann er ølldung es linur, utann fyrer ofann sialft Lijf-Beined, þar finst nockud hardt, og hnøttott, sem er Barnsins Høfud. 3.) Þegar Konann er Rannsokud, finst lijted edur eckert til Barnsins. 4.) Nær þvi eckert finst og helldur af Moodur-Lijfsins Munna, so framt hann hafe ecke allareidu opnad sig, og verdur þa ei naad til, utann hier umm haalfrar Randarinnar aa honum.

4. Hvor Hiaalp er hier vid?

Under eins og Madur er vijs orden̄, ad Moodur-Lijfenn er bañeñ hættad, skal baña Konuñe ad herda ad sier, eñ bidia hana ad kasta Vatne sijnu fraa sier, so ad Hland-Bladrañ sem full kañ ad vera, lijde eckert illt af Barnsins Høfde, edur Yfersetu-Konuñar Hønd; Eñ ef Konañ hefur ei nylega hægt sier til Baksins, þa maa setia heñe Klyster, svo þad allt verde wthreinsad sem til Hindrunar kañ vera. Sijdañ skal leggia Konuna nidur, svo ad Høfda Hluteñ sie lægre eñ Lendarnar, þar næst lætur Yfersetu-Konañ sijna Fijngur aa añare Hendeñe iñ i Fædingar-Stadeñ, og leitast hæglega, ad draga Moodur-Lijfsins Muña til Baka ad Enda-Parmenum, og med hiñe Hendeñe hlijtur hun under eins þrijsta ad ofañverdu til vid Lijf-Beined Barnsins Høfde fraa sier ad Bakinu, og i þvi sama lypta þvi upp fraa Beinenu. Eñ kome hun ecke fyrr, eñ Fornisted er sprwnged, og Høfud Barnsins er bert orded, þa smeiger hun Tveimur Fijngrunum iñ med Adgiætne millum Lijf-Beinsins og Barnsins Høfuds, i þañ Maata, ad Vatnsgaangureñ verde mille Fijng-

Fijngraña, og Hnwunum, ansamt Nøglunum snijr hun ad Barnsins Høfde, þo so, ad þeir steite ei a sialfu Hvirfil-Beinenu, sem er nærsta veikt, helldur einhvörium føstu Beine i Høfdenu. Med þessum Fijngrum leitast hun vid ad koma Høfdenu fra Lijf-Beinenu ad Bakenu, i þvi, ad hun under eins med hiñe Hendeñe hialpar þar til, so sem fyr er sagt: Þegar bwed er ad koma Høfdenu ofañ fra Lijf-Beinenu, þa skal Konañ reisa sig hægt uppaptur, og setiast upp, so ad hun beigie sig afram mjøg, edur hun skal standa a Høndunum og Kniaunum, uppa þad Moodur-Lijfed med sijnum Þwnga, kyñe þess helldur ad kasta sier so miked sem verdur, fra Bakenu til Naflans, og þa skal bidia Konuna ad hialpa til af fremsta Megne, þegar Hrijdernar koma, og Yfersetu-Konañ hialpar og til i þvi sama med baadum Høndum, sem sagt er.

5. Er eingeñ Hæste i þvi ad hialpa þañeñ Barnsins Høfde fra Lijf-Beinenu?

Ef Madur merker þad, ad Moodur-Lijfed hafe ei aulldungis, helldur nockud lijted kastad sier til Baksins, þa ma bw-

ka þeñañ Maata, sem sagt er, og laata Konuna fæda sitt Barn Naatturlega, eñ liggie Moodur-Lijfed aulldunges vid Bak ed, edur Hriggeñ, þa er aungvanveigeñ Naadlegt, med þessu sögdu Moote, ad vilia hiaalpa Höfdenu fyrst frañ, helldur strax ad siaa til, ad fiña Fæturnar, og snwa Barnenu epter þeim Hætte, sem hier epter skal sagdur verda, hvør ad er saa beste, sliootaste og vissaste, til ad frelsa bæde Konuna og Barned: Þar fyrer utañ kañ Madur smeigia Höndeñe, þa hun er komeñ iñ i Moodur-Lijfsins Muña, leingra upp i Moodur-Lijfed, til ad naa Barnsins Footuin.

6. Hvar fyrer maa ecke hiaalpa Barnsins Höfde fram, þegar Moodur-Lijfed er so miøg kastad til Baksins?

Þar med stofnast Barnenu og Moodureñe Jafnvel i mesta Lijfs Haaska, þviad med þvi ei verdur Höndeñe vidkomed ad utañverdu ad yta Moodur-Lijfenu fraa Bakenu, so hlijtur þad med Barnenu ad vera þar kyrt, hvar af þad kiemur, ad þegar bwed er med stoorre Praut ad hiaalpa Barnsins Hofde ofañ i Skaalena, þa sijgur

ſijgur þad ſo laangt niduŕ ad Fædingar-Stadnum, ad Høfud-Skieleñ kiemur i Lioos, og ſtendur þar kyrt, ſo þad kiemſt ei leingra, þvi Arlernar ſtanda vid þad ſama Bein, ſem Høfuded ædur ſtood, og ſo ſeın þa verdur ecke vidhiaalpad, hlijtur Moodureñ ad deyia, med Barned O-fædt. Ellegar ſo ad Moodureñ Frelſeſt, þa ſkal taka Barned med Afle, þo med meſtu Hægd og Varwd ſem møgulegaſt kañ verda.

7. Hvad er framveiges Athugande almeñelega, um̃ þeſſa ſkocku Legu Moodur-Lijffsens?

Allt þad ſem i þeſſum Fioorum undañfarande Capitulum er ſagt, er ad ſkilia alleinaſta um̃ Moodur-Lijffsins ſkacka Legu, þo Barned añars riett ad bere, ſo þeſs Høfud ſtande riett aa Muña Moodur-Lijffsins: Þviad þar ſem þad kañ ad henda, ad bæde ſnwe Barned illa, og ad Modur-Lijfed liggie ſkackt, þa þarf ei ad hyxa til þeſs, ad faa vidriett Moodur-Lijfed fyrſt, helldur ſtrax ad ſmeigia Høndeñe iñ i Moodur-Lijfed, naa Footunum, og ſnwa Barnenu, So fram̃t ſem Barnenu og Moodureñe ſkule ecke ſtofnad vera i ſtær-

